Íslendinga sögur.

28.

# Grettis saga Ásmundarsonar.

Búið hefir til prentunar

Benedikt Sveinsson.

Reykjavík.

Kostnaðarmaður: Sigurður Kristjánsson.

1920.

Félagsprentsmiðjan.

# GRETTIS SAGA ÁSMUNDARSONAR

---

BÚIÐ HEFIR TIL PRENTUNAR
BENEDIKT SVEINSSON



REYKJAVIK.
KOSTNAÐARMAÐUR SIGURÐUR KRISTJÁNSSON
1921

# FORMÁLI.

*Þetta er ið fimta sinni, sem Grettis saga Ásmundarsonar kemr út á vora tungu. — Fyrst var sagan prentuð á Hólum í Hjaltadal 1756 í safni því, er Björn Markússon gaf út og kallaðist „Nockrer Margfrooder Sögu-Þætter Islendinga.“ — Þá gáfu þeir út söguna Gísli Magnússon og Gunnlaugr Þórðarson á kostnað „ins norræna fornfræðafélags“ (Det Nordiske Literatur-Samfund) í Kaupmannahöfn á árunum 1852—59. Fylgdi útgáfunni dönsk þýðing sögunnar eftir Gunnlaug Þórðarson. Íslenzki textinn kom út sérstakr 1852. Var útgáfa þessi allvíða til á Íslandi. — Enn var sagan gefin út í „Altnordische Sagabibliotek“ í Halle árið 1900 af R. C. Boer (frb. Búr) háskólakennara í Hollandi; er hún 8. bindi í því sagnaverki. — Sama ár kom sagan út í Reykjavík, í útgáfu Sigurðar Kristjánssonar; Valdemar Ásmundarson bjó undir prentun. Sú útgáfa er prentuð eftir Kaupmannahafnarútgáfunni, að öðru en því, að ýmsar leiðréttingar eru gerðar á vísunum, samkvæmt rannsóknum og tilgátum dr. Jóns Þorkelssonar skólastjóra. Var texti sögunnar fullprentaðr áðr útgáfa Boers kæmi hingað til lands. Varð hún því einungis notuð við vísnaskýringar og formála:*

*Útgáfa Boers af Grettissögu er in ágætasta. Hefir hann allra manna bezt rannsakað öll handrit sögunnar og söguna sjálfa og hafði skrifað um hvorttveggja langar ritgerðir af miklum lærdómi í Zeitschrift für deutsche Filologie, áðr útgáfa hans kæmi á prent. Útgáfunni fylgir og langr og skilmerkilegr formáli og miklar fróðleiksgreinir neðanmáls, svo sem venja er í Halleútgáfunni. Er frágangr allr inn smekklegasti og vandaðasti*).*

*Handrit eru eigi eldri til af Grettissögu en frá 15. öld. Skulu hér nefnd þau, er Boer hefir notað við útgáfu sína:*

*A. M. 551 a, 4to. Skinnbók í Árnasafni rituð á 15. öld. Bókin er ekki heil. Á henni hefir verið Bárðar saga Snæfellsáss, nú einungis endirinn, Víglundar saga og Grettis saga. Sögur þessar segir Árni Magnússon að „hafi fyrrum tilheyrt Skálholltz kirkiu þó alldri þar registreradar verid. Kynni epter ordid hafa af M. Bryniolfs [biskups] bokum.“*

*A. M. 556 a, 4to. Skinnbók frá 15. öld. Á bók þessari eru: Sigrgarðs saga frækna, Grettis saga (og hefir aftan við söguna verið kvæðið G r e t t-*

---

** Það er ekki tiltökumál, þótt útgefanda hafi getað yfirsést um einstaka smá-atriði: Á bls. 310 segir hann t. d., að ókunnugt sé um skyldleika þeirra Þorsteins drómundar og Haralds konungs Sigurðarsonar, en þeir vóru fjórmenningar, samkvæmt því sem talið er í upphafi sögunnar (1. kap., bls. 1). Á sama hátt er skökk aths. á bls. 150 út af orðum Grettis við Óláf konung: „Þat hafða ek ætlat, at ek munda meiri sæmd til yðar sækja, herra! sakir ættar minnar“; — þeir Grettir og Óláfr vóru fjórmenningar, samkv. því er fyrr var til vísað. — „Skeggi ór Ási“ í nafnaskránni er: Miðfjarðar-Skeggi.*

*isfærsla, en skafið út), Gísla saga Súrssonar og Harðar saga Grímkelssonar ok Geirs. Bókina fekk Árni úr Vestfjörðum, sundrlausa. Hafði hún fyrrum verið í eigu Eggerts lögmanns Hannessonar.*

*A. M. 152, fol. Skinnbók í arkarbroti. Tvídálkuð. Frá 15. öld. Grettis saga Ásmundarsonar er fremst í bókinni og því næst tíu sögur aðrar, fornaldarsögur og ævintýrasögur. Bók þessa hefir átta Magnús Björnsson lögmaðr á Munkaþverá. Á blaðrönd einni stendr: „Þessa saugu hefur skrifath broder Biarnar Þorleifssonar.“ — Eftir bók þessari er mest farið í Khafnar-útgáfunni og hefir hún verið notuð við útgáfu ýmissa annara sagna, þeirra er á hana eru skráðar.*

*A. M. 151, fol. Pappírsbók, rituð af Jóni Gizurarsyni að Gnúpi í Dýrafirði (hálfbróður Brynjólfs biskups), komin til Árna frá Högna presti Ámundasyni.*

*A. M. 150, fol. Pappírsbók með hendi Ásgeirs Jónssonar. Hefir verið eign Þormóðar Torfasonar sagnaritara.*

*Skinnbók í safni de la Gardie í Uppsölum, X. fol. (frá öndverðri 15. öld.).*

*Auk þessara handrita er til mikill fjöldi pappírsbóka af Grettis sögu frá síðari öldum víðsvegar í söfnum og í eign einstakra manna. Eru þau gildislaus við útgáfu sögunnar, en örugt vitni um vinsældir hennar meðal Íslendinga aldir gegnum.*

*Það yrði oflangt mál að greina einkenni og skilsmun fyrrnefndra höfuðhandrita. Ekkert þeirra er svo gott að galli né fylgi né heldr svo ilt, að einugi dugi. Hefir hvert til síns ágætis nokkuð, svo að sérhvert þeirra getr haft réttast*

fyrir sér í einstökum atriðum, þótt ekkert þeirra verði beint lagt til grundvallar. Verðr að skera úr því, við samanburð, hvað réttast muni í hverju atriði. Hefir Boer með þeim hætti lagfært orð og setningar textans svo margvíða frá Khafnar-útgáfunni, að varla verðr talið.

Skoðanir fræðimanna um aldr og uppruna Grettissögu hafa verið harla sundrleitar. Guðbrandr Vigfússon segir í ritgerð sinni um tímatal í Íslendingasögum (Safn I.), að „varla (sé) efamál, að Grettis saga muni í öndverðu ritin seint á 12. öld, en síðan hafi annar maðr löngu síðar, á öndverðri 14. öld að líkindum, aukið við Spesarþætti og skotið þar að auki ýmsum klausum inn í söguna hér og hvar, mest eftir frásögn Sturlu lögmanns.“ — Aðrir (svo sem dr. Finnr Jónsson og próf. Mogk) telja söguna alla eina heild frá upphafi til enda, ritaða á hnignunarskeiði íslenzkra bókmenta, á öndverðri 14. öld. —

Boer hefir rannsakað þetta efni betr öllum öðrum og verðr að meta mikils röksemdir hans. Ætlar hann söguna fyrst ritaða um miðja 13. öld. Er þessi gerð sögunnar hvergi til sjálfstæð í handritum, þótt hún sé meginkjarni þeirrar Grettissögu, sem enn er til. Þessa elztu sögu telr Boer, eins og Guðbrandr Vigfússon, verið hafa eitt ið mesta snildarrit meðal sagna vorra frá söguöld. — En sagan hefir að hans dómi orðið fyrir gerningum, — verið handleikin óþyrmilegar, en flestar aðrar Íslendinga-sögur. Nýr höfundr hefir endrritað söguna skömmu eftir dauða Sturlu lögmanns Þórðarsonar, eða um 1290 og aukið inn í hana ýmsum köflum, sem röskuðu sums staðar réttu

*samhengi. Höfundr þessi hefir verið lærðr maðr og nokkuð handgenginn Sturlu, því að hann vitnar til hans sem heimildarmanns.*

*Helztu viðaukar þessa höfundar eru: Söðulkolluvísur og frásögnin um þær í 47. kap. og æfintýr Grettis og Lofts á Kjalvegi í 54. kap.; æfintýrið á Reykjaheiði í 63. kap. og í Bárðardal í 64. kap.; endrtekning á komu Grettis að Bjargi og viðreign þeirra Þórodds Snorrasonar í 67.—69. kap.; atburðirnir á Hegranessþingi í 72. kap.; fjórir staðir, þar sem getið er Sturla lögmanns í 49., 69., 84. og 93. kap.; um syknu Grettis í 77. og 76. kap. — Ennfremr nokkrir kviðlingar með stuttum formálsorðum í 24., 52. kap. og víðar, svo og smá-innskot á víð og dreif og að líkindum stafar frá sama höfundi að einhverju leyti frásögnin um dauða Hallmundar. Allir þessir kaflar stinga í stúf við orðbragð frumsögunnar, vantar t. d. málshætti; í vísunum eru eiginnöfn fólgin í líkingum o. s. frv.*

*Skömmu síðar, eða um 1300, hefir annar höfundr fjallað um þetta handrit sögunnar og aukið enn við: Hallmundarkviðu (50.—56. vísu í 62. kap.) og nokkru máli, er henni fylgir, Spesarþætti*), nokkrum vísum (t. d. 44. og 45. í 54. kap. og e. t. v. 67.—70. vísu í 80. kap.) og enn nokkrum smá-innskotum.*

*Alla þessa viðauka hefir Boer sett í hornklofa, hvort sem þeim er við bætt af inum fyrra eða síðara endrsemjanda. Þess getr hann, og, að víðar muni vera nokkur innskot, þótt nú sé vant að*

---

** Þó hefir sagan frá öndverðu sagt frá hefnd Grettis í Miklagarði.*

*greina, enda má nærri geta, að víða muni vera breytt að einhverju leyti orðavali í ýmissum köflum sögunnar, þótt að öðru sé óbreyttir frá hendi frumhöfundar.*

*Sagan er að öndverðu mestmegnis saman tekin eftir munnmælum. Frumhöfundrinn hefir vinsað úr sögnunum og skipað þeim niðr; hafnað þeim, er honum þótti ósennilegar eða ósamkvæmar söguheildinni. Hann hefir verið einkar kunnugr sögu landsins. Hefir hann og stuðzt í sumu við önnur rit, einkum Landnámabók, eldri gerð, að því er virðist, heldr en þær, er nú eru til. Hann hefir og notað Fóstbræðrasögu í eldra gervi, en nú er til. Þá skírskotar hann einnig til Bjarnar sögu Hitdælakappa og Laxdæla sögu og enn fleiri sagna, sem nefndar eru í sögunni.*

*Engar getur leiðir Boer að því, hver vera muni frumhöfundr sögunnar. Verðr það og eigi til víss vitað. En það virðist mér auðsætt, að allr snildarbragr sögunnar um orða val og efnis og frásagnarhátt sverji sig í ætt Sturlunga. Ósagt skal,hvort Snorri muni þar hlut að eiga. Víst er hitt, að Sturla Þórðarson hefir gert sér títt um sögu Grettis, þar sem hann er hvað eftir annað nefndr sem heimildarmaðr í viðaukunum; og þar sem greint er í endalok sögunnar, hvað Sturla hafi Gretti mest til gildis talið, þá mætti það vera tekið eftir því, er Sturla hefði sjálfr að orði kveðið í enda handrits síns af sögunni. — Kunnugleikr höfundar á staðháttum er langmestr á slóðum þeirra frænda, Sturlunga.*

*Sá maðr, sem næstr fjallaði um söguna, hefir verið handgenginn Sturlu Þórðarsyni, því að hann skírskotar til ummæla hans nokkrum sinnum.*

*Höfundr þessi hefir aukið inn í söguna ýmissum munnmælasögum, en með því spilt semhengi frumsögunnar; brestr hann listfengi og íþrótt við inn fyrra höfund. Engu að siðr hefir saga hans þótt hinni fullkomnari og því útrýmt henni. — Loks kemr þriðji „höfundrinn“, sem skreytir söguna eftir sínum smekk, meðal annars með stælingum úr Örvar-Odds sögu, (í vísu Hallmundar) og með Spesar-þætti, er hann eykr við söguna og notar hann þar frásagnir um Harald harðráða (Norðbrikt) og jungfrú Maríu dóttur Zóe drotningar í Miklagarði (sbr. Morkinskinnu og Flateyjarbók), heimfærir þær til Þorsteins og Spesar og eykr við atriðum úr Tístrans sögu. — Jafnvel þótt þessi endrsemjari hafi meingað málfar frumhöfundar hér og hvar á sögunni, þá verðr varla um vilst, að á Spesar-þætti er alt-annað orðbragð, en á meginhluta sögunnar og „andinn“ svo gerólíkr, sem verða má.*

*Innskotsgrein sú um spjót Grettis, sem stendr á bls. 147, ber sjálf merki um aldr sinn: „[Spjótit þat, er Grettir hafði týnt, fanst eigi fyrr en í þeira manna minnum, er nú lifa· [Þat spjót fanst á ofanverðum dögum Sturlu Þórðarsonar]]. Síðari setningin er yngri viðbótarskýring og því hefi eg greint hana frá inni fyrri.*

*Útgáfa sú, er hér birtist, er prentuð eftir útgáfu Boers að öllu meginmáli og hornklofar hafðir með sama hætti sem þar um þá kafla, er hann telr innskot. Er það gert lesöndum til leiðbeiningar og athugana. Vísurnar eru að mestu settar eftir útgáfu dr. Finns Jónssonar af íslenzkum kveðskap inum forna (Den Norsk-Islandske skjaldedigtning). Í skýringum vísnanna er víða*

*studdst við Skýringar dr. Jóns Þorkelssonar skólastjóra og við fyrrnefnda útgáfu dr. F. J., þar sem þær eru „teknar upp“ eða „færðar til rétts máls“ neðanmáls. Vísurnar eru flestar heldr auðveldar og ekki mjög merkilegar. Er þorri þeirra orktr löngu eftir daga Grettis, svo sem dr. J. Þ. hefir sýnt fram á og ýmsir aðrir, enda bera þær þess sjálfar glögt vitni. Sumar þeirra hafa söguhöfundarnir vafalaust orkt sjálfir. Dr. F. J. telr einungis tíu vísur og kviðlinga dróttkveðna eftir Gretti*) og ennfremr (hykandi) sjö vísur í ævikviðu undir fornyrðislagi um þá Þorfinn og Þorstein drómund og um Þorbjörgu Óláfsdóttur, í 24. kap., en Boer telr vísur þessar innskot. — Um sumar vísurnar verðr alls ekki fullyrt, því að þær megu fyrir orðbragðs sakir vera orktar af Gretti, en skáld á 13. öld kunnu og vel að fyrna kveðskap sinn, þótt stundum bregðist þeim bogalistin. — Boer hefir tekið út úr sögunni og prentar í viðauka fjórar vísur (67.—70.) og er það að vísu rétt, að þær hafa eigi átt heima í sögunni frá upphafi, og koma ófimlega við. Eg hefi þó tekið vísurnar upp í 80. kap., þar sem þær standa í handritum, því að þær eru alls ekki ómerkilegar. Virðist mér rétt athugað það, er Valdemar Ásmundarson segir í formála útgáfu sinnar: „Vísurnar í 80. kap. hafa verið taldar ungar, en þær virðast þó býsna fornlegar og að kveðandi til geta þær verið fornar, ef í stað „þarfur Vébrands arfi“ er sett „þarflegr Vébrands arfi“. Það getr naumast átt sér stað, að söguritarinn hafi búið þessar vísur til, sem hvergi eiga*

---

* *Þessar vísur eignar hann Gretti: 8., 13., 26., 30., 38., 57., 58., 62., 63., 64. —*

við söguna. Hitt er líklegra, að hann hafi sett þær inn í hana, þótt hann gæti ekki sagt frá þeim atburðum, sem þær eiga við." Þessi ummæli eigu við þrjár síðustu vísurnar. Vísan um Þorfinn Arnórsson kemr heim við Reykdæla sögu, svo sem getið er í skýringunum. Torfa Vébrandssonar er hvergi getið annars staðar, en víst má telja, að vísurnar um hann hafi við söguleg rök að styðjast, og gæti þær jafnvel verið orktar af Gretti sjálfum. Víst er, að Grettir hefir komið í Mýdal og hafa lifað þjóðsagnir um hann þar.

Skráin um tímatal er að mestu tekin eftir útgáfu Boers. Henni skeikar í sumu frá tímatali Guðbrands Vigfússonar. Svo sem sagan ber með sér, segir fátt af ævi Grettis frá því er hann fór úr Þórisdal og þar til er hann fór í Drangey. En þar í milli eru þrjú ár. Sagan segir, að hann færi þá „suðr um land ok svá til Austfjarða. Var hann í þessarri ferð um sumarit ok vetrinn, ok fann alla ena meiri menn, ok bægði honum svá við, at hvergi fekk hann vist né veru. Svá fór hann aftr et nyrðra ok dvaldist í ýmsum stöðum." Síðan er þess getið, að Grettir lægi úti um sumarið eftir „á Möðrudalsheiði ok í ýmsum stöðum. Hann var ok stundum á Reykjaheiði." Hér hefir höfund sögunnar brostið sannar sagnir af Gretti og farið fljótt yfir sögu. Hefir hér verið aukið í söguna frásögninni um Vestfjarða-Grím og síðan um æfintýrið á Reykjaheiði og í Bárðardal, til þess að fylla í skörðin.

Það er augljóst, sem Boer tekr fram, að þessi ár, sem heita má að hlaupið sé yfir í sögunni, hefir Grettir verið í för sinni um Suðrland, Austfirðingafjórðung og Þingeyjarþing. Höfundr sög-

*unnar hefir verið ókunnugr um alt Austrland (og Skaftafellsþing og Þingeyjarþing) og eigi þekt sagnir þær, er þar gengu af Gretti. En um þær höfum vér enn nokkrar menjar, fyrst í vísum þeim í 80. kap. sögunnar, er geta um viðreign Grettis við Torfa Vébrandsson í Mýdal og Þorfinn Arnórsson úr Reykjahlíð, þá frásögn Reykdæla sögu um fund þeirra Þorfinns og loks munnmæli, er lifað hafa fram á þenna dag, örnefni*) og merkilegar fornmenjar. Í Öxarfirði hafa gengið miklar sagnir af Gretti. Heitir V í g a b e r g (eða Vígabjarg) við Jökulsá, þar sem sagt er, að hann berðist við Öxfirðinga. G r e t t i s b æ l i er í Öxarnúp með auðsæjum mannvirkjum. Eru lýsingar af því eftir Björn Bjarnarson í „Íslendingi", dr. Kålund í bók hans um sögustaði á Íslandi og Þorleif prest Jónsson á Skinnastöðum í „Fjallkonunni". Ennfremr hafa þeir orkt um Grettisbæli þetta: Einar skáld Benediktsson og Guðmundr skáld Friðjónsson.*

*Um athvarf Grettis og athafnir á þessum slóðum veit höfundr sögunnar alls ekki og breiðir yfir ókunnugleik sinn með orðtæki um, að Grettir hafi dvalizt „á ýmsum stöðum". Er þetta því kynlegra, sem höfundi hefði hlotið að vera innan handar að fá sagnir um Gretti af mönnum úr þessum héruðum á Alþingi, því að varla hefir sagan verið*

---

** Undir Eyjafjöllum eru örnefni kend við Gretti. Þar heitir Grettisskarð í Hrútafelli og Grettisgat í Holtsgnúp. (Sbr. Þjóðsögur og munnmæli. Rv. 1899, bls. 32). — Víða um land hafa menn farið að kalla einstaka ísaldar-steina Grettistök, nú á síðustu tímum. Slík nöfn eru auðvitað markleysa.*

*skráð umsvifalaust og rannsóknarlaust á einum vetri.*

*Boer telr víg Þorsteins Kuggasonar um haustið 1027, svo sem talið er í Íslenzkum annálum, eða ári síðar, en dr. Guðbrandr telr. Grettir spyr lát Þorsteins verið eftir (1028) og kemr þá til Möðruvalla. Þar er honum ráðið að fara til Drangeyjar. En eigi hefir Guðmundr ríki verið við þau ráð, því að hann lézt 1026, heldr synir hans, Eyjólfr inn halti og Koðrán. Þaðan fór Grettir til Bjargs og síðan í Drangey um haustið. Þar var hann í þrjá vetr, unz hann var veginn. Kemr þetta þá heim við söguna, en eigi annan veg.*

*Í nafnaskránni hefi eg getið um dánarár manna, þar sem mér var kunnugt. Eg skal geta þess, að Resens-annáll telr dauða Víga Styrs árið 1008 og „víg Þorsteins G(ísla)sonar“ 1009, en eg hefi sett hvortveggi vígin ári fyrr, samkvæmt tímatali Eyrbyggja sögu, 56. kap.*

*Grettis saga hefir þýdd verið á ýmsar tungur og verið gefin út oftar en um sinn og í fleirum þýðingum en einni. Skal hér getið inna helztu:*

*Á sænsku: „Sagan om Grette den starke, tolkad från fornisländskan af A. U. Bååt. Lund. 1901.“ — Ennfremr „Sagan om Grette den fredlöse“ í „Hedda Anderson's Nordiske sagor. Stockholm 1896.“*

*Á dönsku: „Fortælling om Gretter den Stærke“ í „Historiske Fortællinger om Islændernes Færd hjemme og ude, ved N. M. Petersen.“ Kh. 1844. — „Fortællinger om Vatnsdölerne; Gisle Sursen, Gunlaug Ormstunge, Grette den Stærke. Ved N. M. Petersen. 3. Udg. ved Verner Dahlerup*

*og Finnur Jónsson." Kh. 1901. — „Grettes Saga" í „Fortællinger og Sagaer fortalte af H. H. Lefolii." 1. útg. í Kh. 1861. — 2. útg. í Kh. 1874. — „Grettes Saga" í: „Billeder af Livet paa Island. ved Fr. Winkel Horn." Kh. 1874.*

*Á ensku: „Grettis saga. The Story of Grettir the Strong. Translated from the Icelandic by Eiríkr Magnússon and William Morris." Fyrsta og önnur útgáfa í London 1869. — Þriðja útgáfa kom út 1901. Var það skrautútgáfa með gullnu letri á litaðan pappír. Prentuð einungis 315 eintök. Var þessi útgáfa 1. bindi ritverka Williams Morris, er alls vóru 8 bindi. — „Grettir the Outlaw. A Story of Iceland. By S. Baring-Gould." Með 10 myndum eftir M. Zeno Diemer og landabréfi með litum. London 1890. — Áðr hafði Baring-Gould birt kafla úr sögunni eða ágrip í riti sínu „Iceland, its Scenes and Sagas". London 1863. Baring-Gould ferðaðist um Ísland. Hafði hann inar mestu mætur á Grettissögu og hélt fram óskeikulleik hennar af alefli. — Grettir the Strong (By E. H. Jones), í: Tales of the Teutonic Lands, by G. W. Cox and E. H. Jones. London 1872.*

*Á þýzku: E. Dagobert Schönfeld: Gretter der Starke. Einer alten Isländischen Urkunde nacherzählt. Berlin 1896. — Önnur þýðing: „Die Geschichte von dem starken Gretter .Übertragen von Paul Herrmann." Með átta myndum og landabréfi. Útgefandi Evgen Diederich í Jena 1913. Er þýðing þessi fimta bindi í ritasafninu Thule, sem í eru þýðingar á fornsögum vorum og fornkvæðum og próf. Felix Niedner gefr úr.*

*Til eru að minsta kosti tvennar rímur um Gretti.*

*Inar eldri eru taldar orktar um 1400 og ná yfir 14.—24. kapítula sögunnar. Eru þær prentaðar í „Rímnasafni“ (Samling af de ældste islandske rimer. Udg. for Samfund til udg. af gammel nordisk literatur ved Finnur Jónsson, Kh. 1905). — Aðrar Grettisrímur eru til í handriti eftir Kolbein Grímsson Jöklaraskáld, þann er kvaðst á við Kölska. Eru þær 20 talsins. Úr þessum rímum er in alkunna vísa: „Alda rjúka gerði grá“ o. s. frv.*

*Matthías Jochumsson orkti kvæðabálk um Gretti: Grettisljóð, er prentuð vóru í Ísafirði árið 1897.*

*Dr. Jón Þorkelsson skólastjóri samdi: „Skýringar á vísum í Grettissögu“, er út komu í Reykjavík 1871. Hann reit og um „Aldr vísnanna í Grettissögu“ í Norðanfara 1868. Þá hefir og Janus próf. Jónsson ritað um vísurnar í Grettissögu í Arkiv for nordisk Filologi XVII. — Guðbrandr Vigfússon hefir rannsakað tímatal sögunnar, sem annara íslenzkra sagna. Lýkr hann inu mesta lofsorði á Grettissögu í ritgerð sinni um tímatal í Íslendingasögum (Safn I.). Hann hefir og ritað um „Grettisfærslu“ í XXI. ár Nýrra félagsrita.*

*Þjóðsögur margar hafa gengið um Gretti víða um land og eru sumar skráðar (t. d. í Þjóðsögum Jóns Árnasonar II. 94) en sumar enn óskráðar. Merkilegt er það, að sagnir hafa og lifað um Gretti í Noregi, sbr. Gustav Storm: (Norsk) Historisk Tidskrift 2. R. II. bls. 377 osfrv. og L. Daae í sama riti: 1871, bls. 498—500.*

*Loks skal eg geta þess, að prófarkalestr hefir verið í örðugasta lagi, sakir þess, að sagan er vélsett. Þó vona eg, að prentvillur sé ekki mjög margar. Þessar hefi eg fundið: bls. 24: stýrimaður f. stýri-*

*maðr; bls. 81: Ámundr f. Ásmundr; bls. 88: seim-Gautr f. seim-Gauts; bls. 236: Darra f. darra; bls. 273: Ásræði f. Áræði. — Nokkrar villur eru og leiðréttar í skýringunum.*

*15. sept. 1921.*

*BENEDIKT SVEINSSON.*

---

 

# TÍMATAL.

| | |
|---|---|
| Hafrsfjarðarorrusta ............ | 872. |
| Önundr tréfótr ferr til Íslands um | 892. |
| Æsa Ófeigsdóttir deyr ..... um | 910. |
| Fœddr Þorgrímr hærukollr . um | 915. |
| Bardagi at Rifsskerjum .... um | 940. |
| Fœddr Ásmundr hærulangr . um | 945. |
| Ásmundr ferr utan ........ um | 970. |
| Fœddr Þorsteinn drómundr um | 980. |
| Ásmundr kemr aftr til Íslands um | 984. |
| Fœddr Grettir Ásmundarson .... | 996. |
| Grettir at knattleikum á Miðfjarðarvatni .................... | 1010 |
| Grettir vegr Skeggja í þingreið, gerr sekr þrjá vetr ok ferr utan með Hafliða at Reyðarfelli, er í vetrvist með Þorfinni í Háramarsey ok fellir berserkina at jólum .......... | 1011. |
| Grettir ferr norðr í Vága um sumarit ok hefir vetrvist í Sálfti á Hálogalandi ............. | 1012. |

Þenna vetr (1018—19) er Grímr skógarmaðr með Gretti á heiðinni. Þórir rauðskeggr kemr til Grettis um haustit 1019 ok er þar tvá vetr (1019 —20 og 1020—21), unz Grettir vegr hann. Þórir í Garði berst við Gretti eftir þing. Grettir finnr Hallmund. Ferr um haustit í Hitardal ok fær sér athvarf í Fagraskógafjalli, at ráði Bjarnar Hitdœlakappa .. 1021.

Grettir á í höggi við bœndr ok fæst við Gísla Þorsteinsson .. 1022.

Grettir berst við bœndr annat sinn haustit 1023. Hefir enn vetrsetu í Fagraskógafjalli ...... 1023—24.

Ferr um várit ór bygð ok hefst við í óbygðum við Geitlandsjökul um sumarit. Björn Hitdœlakappi veginn um haustit ... 1024.

Grettir í Þórisdal vetrinn ...... 1024—25.

Grettir ferr ór Þórisdal várit 1025 suðr um land. Ferr því næst austr et syðra; hittir „alla ena meiri menn“ um Suðrland ok Austfjörðu. Hefst við á Möðrudalsheiði „ok í ýmsum stöðum,“ í Öxarfirði ok Bárðardal. Tekr þessi kafli ævi hans um þrjá vetr .............. 1025—28.

| | |
|---|---|
| Víg Þorsteins Kuggasonar samkvæmt annálum (haustit) .. | 1027. |
| Grettir fréttir víg Þorsteins várit 1028, kemr á Möðruvöllu ok til Bjargs. Þeir Illugi ráðast til Drangeyjar um haustit .... | 1028. |
| Þorbjörn öngull biðr Gretti brottfarar ór eynni at áliðnu sumri | 1029. |
| Grettir syndir í land ór Drangey. Fall Hærings um sumarit .. | 1030. |
| Lát Snorra goða um várit ...... | 1031. |
| Dráp Grettis ok Illuga síð um haustit .................. | 1031. |
| Þorbjörn öngull ferr til Noregs .. | 1032. |
| Veginn Þorbjörn öngull út í Miklagarði ..................... | 1034. |

---



# Grettis saga Ásmundarsonar.

---

1. Önundr hét maðr. Hann var Ófeigs sonr burlufótar, Ívarssonar beytils. Önundr var bróðir Guðbjargar, móður Guðbrands kúlu, föður Ástu, móður Óláfs konungs ens helga. Önundr var upplenzkr at móðurætt, en föðurkyn hans var mest um Rogaland ok Hörðaland. Önundr var víkingr mikill ok herjaði vestr um haf. Með honum var í hernaði Bálki Blæingsson af Sótanesi ok Ormr enn auðgi. Hallvarðr hét enn þriði félagi þeira; þeir höfðu fimm skip ok öll vel skipuð. Þeir herjuðu um Suðreyjar; ok er þeir kómu í Barreyjar, var þar fyrir konungr sá, er Kjarvalr hét; hann hafði ok fimm skip. Þeir lögðu til bardaga við hann, ok varð þar hörð hríð; váru Önundar menn enir áköfustu. Fell mart af hvárumtveggjum, en svá lauk, at konungr flýði einskipa. Tóku

þeir Önundr þar bæði skip ok fé mikit ok sátu þar um vetrinn. Þrjú sumur herjuðu þeir um Írland ok Skotland; síðan fóru þeir til Noregs.

2. Í þenna tíma var ófriðr mikill í Noregi; brauzt þar til ríkis Haraldr lúfa, sonr Hálfdanar svarta. Hann var áðr konungr á Upplöndum. Síðan fór hann norðr í land ok átti þar margar orrostur (ok hafði jafnan sigr). Herjaði hann svá suðr eftir landinu. ok lagði undir sik, hvar sem hann fór; en er hann kom upp á Hörðaland, kom í móti honum múgr ok margmenni. Váru þar formenn Kjötvi enn auðgi ok Þórir haklangr, ok þeir Suðr-Rygirnir Sóti ok Súlki konungr. Geirmundr heljarskinn var þá fyrir vestan haf, ok var hann ekki við þenna bardaga, ok þó átti hann ríki á Hörðalandi. Þetta haust kómu þeir vestan um haf, Önundr ok hans félagar; en er þeir fréttu þat, Þórir haklangr ok Kjötvi konungr, þá sendu þeir menn til móts við þá ok báðu þá liðs ok hétu þeim sœmdum. Réðust þeir þá í lið með þeim Þóri, því at þeim var mikil forvitni á at reyna sik, ok sögðust þeir vildu þar vera, sem ströngust væri orrostan. Fundr þeira Haralds konungs varð á Rogalandi, í firði þeim, er heitir í Hafrsfirði; höfðu þeir hvárirtveggju mikit lið. Þessi orrosta hefir einhver mest verit í Noregi; koma hér ok flestar sögur við, því at frá þeim er flest sagt, er sagan er helzt

frá ger. Kom þar ok lið um alt landit ok mart ór öðrum löndum ok fjöldi víkinga. Önundr lagði skip sitt á annat borð skipi Þóris haklangs; var þat mjök í miðjum hernum. Haraldr konungr lagði at skipi Þóris haklangs, því at Þórir var enn mesti berserkr ok fullhugi. Var þar en harðasta orrosta af hvárumtveggjum. Þá hét konungr á berserki sína til framgöngu; þeir váru kallaðir Úlfheðnar; en á þá bitu engi járn; en er þeir geistust fram, þá helzt ekki við. Þórir barðist alldjarflega ok fell á skipi sínu með mikilli hreysti. Var þá hroðit með stöfnum skipit ok höggvit ór tengslum; seig þat þá aftr milli skipanna. Lögðu konungsmenn þá at skipi Önundar; hann var fram á skipinu ok barðist drengilega. Þá mæltu konungsmenn: „Þessi gengr fast fram í söxin; látum hann hafa nökkurar várar minjar, at hann hafi komit í bardagann.“ Önundr stóð út á borðit öðrum fœti ok hjó til manns, ok í því var lagit til hans; ok er hann bar af sér lagit, kiknaði hann við. Þá hjó einn af stafnbúum konungs til Önundar ok kom á fótinn fyrir neðan kné, ok tók af fótinn. Önundr varð þegar óvígr. Fell þá mestr hluti liðs hans. Önundi varð komit á skip til þess manns, er Þrándr hét; hann var Bjarnarson, bróðir Eyvindar austmanns. Hann var á móti Haraldi konungi ok lá á annat borð skipi Önundar. Þessu næst brast megin-

flóttinn. Þeir Þrándr ok aðrir víkingar höfðu sik þá í brott, hverr sem mátti; sigldu síðan vestr um haf. Önundr fór með honum ok Bálki ok Hallvarðr súgandi. Önundr varð grœddr, ok gekk við tréfót síðan alla ævi; var hann af því kallaðr Önundr tréfótr meðan hann lifði.

3. Þá váru fyrir vestan haf margir ágætir menn, þeir er flýit höfðu óðul sín ór Noregi fyrir Haraldi konungi; því at hann gerði alla útlæga, þá sem í móti honum höfðu barizt, ok tók undir sik eignir þeira. Þá er Önundr var gróinn sára sinna, fóru þeir Þrándr til móts við Geirmund heljarskinn, því at hann var þá frægstr af víkingum fyrir vestan haf, ok spurðu, hvárt hann vildi ekki leita aftr til ríkis þess, er hann átti á Hörðalandi, ok buðu honum fylgd sína; þóttust þeir eiga eftir eignum sínum at sjá, því at Önundr var stórættaðr ok ríkr. Geirmundr kvað þá orðinn svá mikinn styrk Haralds konungs, at honum þótti þess lítil ván, at þeir fengi þar sœmdir með hernaði, er menn fengu þá ósigr, er at var dreginn (nálega) allr landslýðr; kveðst ok eigi nenna at gerast konungsþræll ok biðja þess, er hann átti áðr sjálfr; kveðst heldr mundu leita sér annarra forráða; var hann þá ok af œskuskeiði. Fóru þeir Önundr aftr til Suðreyja ok hittu þar marga vini sína. — Ófeigr hét maðr ok var kallaðr grettir; hann

var sonr Einars, Ölvissonar barnakarls. Hann var bróðir Óleifs breiðs, föður Þormóðar skafta. Steinólfr var ok sonr Ölvis barnakarls, faðir Unu, er átti Þorbjörn laxakarl. Steinmóðr var enn sonr Ölvis barnakarls, faðir Konáls, föður Álfdísar ennar barreysku. Sonr Konáls var Steinmóðr, faðir Halldóru, er átti Eilífr, sonr Ketils ens einhenda. Ófeigr grettir átti Ásnýju Vestarsdóttur, Hæingssonar. Ásmundr skegglauss ok Ásbjörn váru synir Ófeigs grettis; en dœtr hans váru þær Aldís, Æsa ok Ásvör. Ófeigr hafði stokkit um haf vestr fyrir ófriði Haralds konungs, svá ok Þormóðr skafti, frændi hans, ok höfðu með sér skuldalið sitt. Þeir herjuðu (um Skotland ok) víða fyrir vestan haf. Þrándr ok Önundr tréfótr ætluðu til Írlands vestr, á fund Eyvindar austmanns, bróður Þrándar. Hann hafði landvörn fyrir Írlandi. Móðir Eyvindar var Hlíf, dóttir Hrólfs Ingjaldssonar, Fróðasonar konungs. En móðir Þrándar var Helga, dóttir Öndótts kráku. Björn var faðir Þrándar ok Eyvindar, sonr Hrólfs frá Ám. Hann stökk ór Gautlandi fyrir þat, at hann brendi inni Sigfast, mág Sölva konungs. Síðan hafði hann farit til Noregs um sumarit, ok var með Grími hersi um vetrinn, syni Kolbjarnar sneypis; hann vildi myrða Björn til fjár. Þaðan fór Björn til Öndótts kráku, er bjó í Hvinisfirði á Ögðum. Hann tók vel við Birni, ok var hann

með honum á vetrum, en herjaði á sumrum, þar til er Hlíf, kona hans, lézt. Eftir þat gifti Öndóttr Helgu dóttur sína Birni, ok lét Björn þá af herförum. Eyvindr hafði þá tekit við herskipum föður síns ok var nú orðinn höfðingi mikill fyrir vestan haf. Hann átti Rafört u, dóttur Kjarvals Írakonungs. Þeira synir váru þeir Helgi enn magri ok Snæbjörn. En er þeir Þrándr ok Önundr kómu í Suðreyjar, fundu þeir þá Ófeig gretti ok Þormóð skafta, ok gerðist með þeim vinátta mikil, því at hverr þóttist annan ór helju heimtan hafa, þann er eftir hafði verit í Noregi, meðan ófriðr var sem mestr. Önundr var hljóðr mjök; ok er Þrándr fann þat, spurði hann eftir, hvat honum bjó í skapi. Önundr svarar ok kvað vísu:

(1) Glatt es-at mér, síz mœttum,
mart hremmir til snemma,
oss stóð geigr af gýgi
galdrs, eldþrimu, skjaldar.
Hykk at þegnum þykki,
þat's mest, koma flestum,
oss til yndismissu
einhlítt, til mín lítit.

Þrándr kvað hann þar mundu þykkja röskvan mann, sem hann væri. — „Er þér sá til, at staðfesta ráð þitt ok kvángast; skal ek ok leggja orð mín til ok liðsinni, ef ek veit, hvar þú horfir á.“ Önundr kvað hon-

um drengilega fara; en kvað þó kvánfängin horft hafa vænna, þau er slœgr sé til. Þrándr svarar: „Ófeigr á dóttur, er Æsa heitir; megu vit þar til leita, ef þú vill.“ Önundr lézt þat ok vilja. Síðan töluðu þeir þetta við Ófeig. Hann svarar vel ok kveðst vita, at maðr var stórættaðr ok ríkr at lausafé, — „en jarðir hans legg ek ódýrt; þykki mér hann ok eigi heill til ganga, en dóttir mín er barn at aldri.“ Þrándr kvað Önund röskvara en marga þá, er heilfœttir væri; ok með liðveizlu Þrándar var þessu keypt, ok skyldi Ófeigr gefa dóttur sinni heiman lausafé; því at jarðir þær, sem í Noregi váru, vildu hvárigir fé kaupa. Lítlu síðar fekk Þrándr dóttur Þormóðar skafta. Skyldu þær sitja í festum þrjá vetr. Síðan fóru þeir í hernað á sumrum, en váru í Barreyjum á vetrum.

4. Vígbjóðr ok Vestmarr hétu víkingar; þeir váru suðreyskir ok lágu úti bæði vetr ok sumar. Þeir höfðu átta skip ok herjuðu um Írland ok gerðu mörg illvirki, þar til at Eyvindr austmaðr tók þar landvörn. Síðan stukku þeir í Suðreyjar ok herjuðu þar ok alt inn í Skotlandsfjörðu. Þeir Þrándr ok Önundr fóru til móts við þá ok spurðu, at þeir höfðu siglt inn til eyjar þeirar, er Bót hét. Nú koma þeir Önundr þar með fimm skipum; ok er víkingar sjá skip þeira ok vita, hversu mörg eru, þykkjast

þeir hafa nógan liðsafla ok taka til vápna sinna, ok leggja skipum sínum í móti. Önundr bað þá leggja skip sín milli hamra tveggja. Þar var mjótt sund ok djúpt; þar mátti einum megin at leggja, ok eigi fleirum skipum en fimm senn. Önundr var maðr vitr ok lét leggja fimm skip fram í sundit, svá at þeir máttu þegar láta síga á hömlu, er þeir vildu, því at rúmsævi var mikit at baki þeim. Var ok hólmr nökkurr á annat borð; lét hann þar liggja undir eitt skipit, ok fœrðu þeir grjót mikit fram á hamarinn, þar er eigi mátti sjá af skipunum. Víkingar lögðu at alldjarflega, ok þóttu hinir komnir í stilli. Vígbjóðr spurði, hverir þessir væri, er þar váru svá kvíaðir. Þrándr segir, at hann var bróðir Eyvindar austmanns, — „ok síðan er hér félagi minn, Önundr tréfótr.“ Þá hlógu víkingar ok mæltu þetta:

(2) Tröll hafi Tréfót allan;
tröll steypi þeim öllum.

„ok er oss þat fásét, at þeir menn fari til orrostu, er ekki megu sér.“ Önundr kvað þat eigi vita mega, fyrr en reynt væri. Eftir þat lögðu þeir saman skipin. Tókst þar mikill bardagi ok gengu hvárirtveggju vel fram. Ok er festist bardaginn, lét Önundr sígast at hamrinum; ok þá er víkingar sá þat, hugðu þeir, at hann mundi flýja vilja ok lögðu at skipi hans, ok undir hamarinn,

sem þeir máttu við komast. Í því bili kómu þeir á bjargit, er til þess váru settir; fœrðu þeir á víkingana svá stórt grjót, at ekki helzt við. Fell þá fjöldi liðs af víkingum, en sumir meiddust, svá at eigi váru vápnfœrir. Þá vildu víkingar frá leggja, ok máttu eigi, því at skip þeira váru þá komin þar, sem mjóst var sundit. Þröngdi þeim þá bæði skipin ok straumr en þeir Önundr sóttu at með kappi, þar er Vígbjóðr var fyrir; en Þrándr lagði at Vestmari, ok vanst þar lítit at. Þá er fækkaðist fólkit á skipi Vígbjóðs, réðu menn Önundar til uppgöngu, ok hann sjálfr. Þat sá Vígbjóðr ok eggjaði með ákafa lið sitt. Sneri hann þá í móti Önundi ok stukku flestir frá. Önundr bað sína menn sjá, hversu fœri með þeim; því at Önundr var rammr at afli. Þeir skutu stubb nökkurum undir kné Önundi ok stóð hann heldr fast. Víkingrinn sótti aftan eftir skipinu, alt þar til er hann kom at Önundi ok hjó til hans með sverði, ok kom í skjöldinn, ok tók af þat er nam. Síðan hljóp sverðit í stubbann, þann er Önundr hafði undir knénu, ok varð fast sverðit. Vígbjóðr laut, er hann kipti at sér sverðinu. Í því hjó Önundr á öxlina, svá at af tók höndina. Þá varð víkingrinn óvígr. Þá er Vestmarr vissi, at félagi hans var fallinn, hljóp hann á þat skip, er yzt lá, ok flýði, ok allir þeir er því náðu. Eftir þat rannsökuðu þeir

valinn. Vígbjóðr var þá kominn at bana. Önundr gekk at honum ok kvað:

(3) Seðu, hvárt sár þín blœða?
sáttu nökkut mik hrökkva?
auðslöngvir fekk engva
einfœttr af þér skeinu.
Meirr er mörgum snerru
málskalp lagit Gjalpar
brjót, es-at þegn í þrautir
þrekvandr, en hyggjandi.

Þeir tóku þar herfang mikit ok fóru aftr í Barreyjar um haustit.

5. Annat sumar eftir bjuggust þeir at fara vestr til Írlands. Þá réðust þeir Bálki ok Hallvarðr vestr um haf, ok fóru út til Íslands, því at þaðan váru sagðir landskostir góðir. Bálki nam land í Hrútafirði; hann bjó á Bálkastöðum hvárumtveggjum. Hallvarðr nam Súgandafjörð ok Skálavík til Stiga ok bjó þar. Þeir Þrándr ok Önundr kómu á fund Eyvindar austmanns, ok tók hann vel við bróður sínum; en er hann vissi, at Önundr var þar kominn, þá varð hann reiðr, ok vildi veita honum atgöngu. Þrándr bað hann eigi þat gera; kvað þat eigi standa, at gera ófrið norrœnum mönnum, allra sízt þeim, er með engri óspekt fara. Eyvindr kvað hann farit hafa fyrr ok gert ófrið Kjarval konungi; sagði hann nú þess skyldu gjalda. Áttu þeir brœðr lengi um þetta at tala, alt þar til, er Þrándr kvað eitt skyldu

ganga yfir þá Önund báða. Lét þá Eyvindr sefast. Dvöldust þeir þar lengi um sumarit ok fóru þeir með Eyvindi í herfarir. Þótti honum Önundr enn mesti hreystimaðr. Fóru þeir til Suðreyja um haustit. Gaf Eyvindr Þrándi arf allan eftir föður þeira, ef Björn andaðist fyrr en Þrándr. Váru þeir nú í Suðreyjum, þar til er þeir kvæntust, ok nökkura vetr síðan.

6. Þat bar næst til tíðenda, at Björn andaðist, faðir Þrándar; ok er þat frétti Grímr hersir, fór hann til móts við Öndótt kráku ok kallaði til fjárins eftir Björn; en Öndóttr kvað Þránd eiga arf eftir föður sinn. Grímr kvað Þránd fyrir vestan haf, en Björn gauzkan at ætt, ok kvað konung eiga at erfa alla útlenda menn. Öndóttr kvaðst halda mundu fénu til handa Þrándi dóttursyni sínum. Fór Grímr við þat á brott ok fekk ekki af fjárheimtunni. Þrándr spurði nú lát föður síns ok bjóst þegar af Suðreyjum, ok Önundr tréfótr með honum; en þeir Ófeigr grettir ok Þormóðr skafti fóru út til Íslands með skuldalið sitt ok kómu út á Eyrum fyrir sunnan landit, ok váru enn fyrsta vetr með Þorbirni laxakarli. Síðan námu þeir Gnúpverjahrepp. Ófeigr nam enn ytra hlut á milli Þverár ok Kálfár; hann bjó á Ófeigsstöðum hjá Steinsholti; en Þormóðr nam enn eystra hlut ok bjó hann í Skaftaholti. Dœtr Þormóðar váru þær Þórvör,

móðir Þórodds goða á Hjalla, ok Þórvé, móðir Þorsteins goða, föður Bjarna ens spaka.

Nú er at segja frá þeim Þrándi ok Önundi, at þeir sigldu vestan um haf til Noregs ok fengu svá mikit hraðbyri, at engi njósn fór um ferð þeira, fyrr en þeir kómu til Öndótts kráku. Hann tók vel við Þrándi ok sagði honum frá tilkalli því, er Grímr hersir hafði haft um arf Bjarnar. „Lízt mér betr komit, frændi, at þú erfir föður þinn, en konungsþrælar. Hefir þér ok gæfusamlega til tekizt, er engi maðr veit um ferðir þínar; en grunar mik, at Grímr stefni at öðrumhvárum okkrum, ef hann má. Vil ek, at þú takir arfinn undir þik ok hafir þik til annarra landa.“ Þrándr kveðst svá gera mundu. Tók hann þá við fénu ok bjóst sem skyndilegast í brott ór Noregi. Áðr en Þrándr sigldi á haf, þá spurði hann Önund tréfót, hvárt hann vildi eigi leita til Íslands. Önundr kveðst áðr vilja finna frændr sína ok vini suðr í landi. Þrándr mælti: „Þá munu vit nú skilja. Vilda ek, at þú sinnaðir frændum mínum; því at þangat mun hefndum snúit, ef ek komumst undan. Mun ek fara út til Íslands, ok svá vilda ek, at þú fœrir.“ Önundr hét því. Skildu þeir með kærleikum. Fór Þrándr út til Íslands. Tóku þeir Ófeigr ok Þormóðr

skafti vel við honum. Þrándr bjó í Þrándarholti; þat er fyrir vestan Þjórsá.

7. Önundr fór suðr á Rogaland ok hitti þar marga frændr sína ok vini. Dvaldist hann þar á laun með þeim manni, er Kolbeinn hét. Hann spurði, at Haraldr konungr hafði tekit undir sik eignir hans ok skipat þeim manni, er Hárekr hét; hann var ármaðr konungs. Önundr fór til hans um nótt ok tók hús á honum. Var Hárekr til höggs leiddr. Önundr tók þar alt lausafé, þat er þeir náðu, en brendu bœinn. Hafðist hann þá við í ýmsum stöðum um vetrinn. Þetta haust drap Grímr hersir Öndótt kráku, fyrir þat, er hann náði eigi fénu til handa konungi; en Signý, kona Öndótts, bar á skip alt lausafé þeira þegar ena sömu nótt, ok fór með sonu sína, Ásmund ok Ásgrím, til Sighvats föður síns. Litlu síðar sendi hon sonu sína í Sóknadal til Heðins fóstra síns, ok undu þeir þar litla hríð, ok vildu fara aftr til móður sinnar. Fóru þeir síðan ok kómu til Ingjalds tryggva í Hvini at jólum. Hann tók við þeim fyrir áeggjun Gyðu konu sinnar. Váru þeir þar um vetrinn. Um várit kom Önundr á Agðir norðr, því at hann hafði spurt fráfall Öndótts ok at hann var drepinn; en er hann fann Signýju, spurði hann hverja liðveizlu þau vildi af honum þiggja. Hon sagði, at þau vildi gjarna hefna Grími hersi fyrir víg Öndótts. Var þá sent eftir

Öndótts sonum; ok er þeir fundu Önund tréfót, lögðu þeir saman lag sitt, ok heldu fréttum um athafnir Gríms. Um sumarit var ölhita mikil at Gríms, því at hann hafði boðit heim Auðuni jarli; ok er þat fréttu þeir Önundr ok Öndótts synir, fóru þeir til bœjar Gríms ok báru þar eld at húsum, því at þeir kómu á óvart, ok brendu Grím hersi inni ok nær þrjá tigu manna. Þeir tóku þar marga góða gripi. Önundr fór til skógar; en þeir brœðr tóku bát Ingjalds fóstra síns ok reru í brott ok lágu í leyni skamt frá bœnum. Auðunn jarl kom til veizlu, sem ætlat var, ok saknaði þar vinar í stað. Safnaði hann at sér mönnum ok dvaldist þar nökkurar nætr, ok fréttist ekki til Önundar ok þeira félaga. Jarl svaf í lofti einu við þriðja mann. Önundr vissi öll tíðendi af bœnum, ok sendi eftir þeim brœðrum; ok er þeir fundust, spurði Önundr, hvárt þeir vildi heldr geyma bœinn, eða ganga at jarli. Þeir köru at ganga at jarli. Þeir skutu stokki á loftsdyrnar, svá at hurðin brotnaði. Síðan greip Ásmundr þá tvá, er váru með jarli, ok rak niðr svá hart, at þeim helt við bana. Ásgrímr hljóp at jarli ok bað hann greiða sér föðurgjöld, því at hann hafði verit í atför ok ráðum með Grími hersi, þá er Öndóttr var drepinn. Jarl kveðst ekki fé hafa hjá sér ok bað fresta um gjaldit. Ásgrímr setti þá spjótsoddinn fyrir brjóst

jarli ok bað hann greiða í stað. Jarl tók þá men af hálsi sér ok þrjá gullhringa ok guðvefjarskikkju. Ásgrímr tók við fénu ok gaf jarli nafn ok kallaði hann Auðun geit. Þá er bœndr ok heraðsmenn urðu varir við, at ófriðr mundi at kominn, gengu þeir út ok vildu veita lið jarli. Varð þar hörð hríð, því at Önundr hafði mart manna. Þar fellu margir góðir bœndr ok hirðmenn jarls. Nú kómu þeir brœðr ok sögðu, hversu farit hafði með þeim jarli. Önundr kvað þat illa, er jarl var eigi drepinn, — „væri þat Haraldi konungi hefnd nökkur fyrir þat, er vér höfum mist fyrir honum.“ Þeir kváðu jarli þetta meiri smán; ok fóru síðan á brott ok inn í Súrnadal til Eiríks ölfúss, lends mans. Hann tók við þeim öllum um vetrinn. Þá höfðu þeir samdrykkju um jólin við þann mann, er Hallsteinn hét, ok kallaðr hestr, ok veitti Eiríkr fyrr, vel ok trúlega. Síðan veitti Hallsteinn ok varð þeim þá at áskilnaði. Hann laust Eirík með dýrshorni. Eiríkr gat eigi hefnt sín ok fór heim við þat. Þetta líkaði stórilla Öndótts sonum; ok nökkuru síðar fór Ásgrímr til bœjar Hallsteins ok gekk inn einn ok veitti Hallsteini mikinn áverka. Þeir hlupu upp, sem inni váru, ok sóttu at Ásgrími. Hann varðist vel ok komst ór höndum þeim í myrkrinu; en þeir þóttust drepa hann. Þat fréttu þeir Önundr ok Ásmundr ok hugðu,

at Ásgrímr væri dauðr, ok þóttust ekki mega at gera. Réð Eiríkr þeim, at þeir leitaði til Íslands; kvað þeim ekki mundu duga, at vera þar í landi, þegar konungr mætti sér svá við koma. Þeir gerðu svá; bjuggust nú til Íslands, ok hafði skip sitt hvárr þeira. Hallsteinn lá í sárum ok lézt áðr þeir Önundr sigldu. Kolbeinn réðst í skip með Önundi, sá er fyrr er getit.

8. Þeir Önundr ok Ásmundr létu í haf, er þeir váru búnir, ok höfðu samflota. Þá kvað Önundr þetta:

(4) Þóttak hœfr at hrotta
hreggvindi fyrr seggjum,
þá's geirhríðar gnúði
grand hvast, ok Súgandi.
Nú verðr á skæ skorðu,
skaldi sigr, at stíga
út með einum fœti
Íslands á vit þvísa.

Þeir höfðu útivist harða ok veðr þver mjök af suðri. Bar þá norðr í haf. Þeir fundu Ísland ok váru þá komnir fyrir norðan Langanes, er þeir kendust við. Þá var svá skamt í milli þeira, at þeir töluðust við. Sagði Ásmundr, at þeir mundu sigla til Eyjafjarðar ok því játtuðu hvárirtveggju. Beittu þeir þá undir landit. Þá tók veðrit at styrma af landsuðri. En er þeir Önundr lögðu í nauðbeitu, þá lestist ráin. Feldu þeir þá seglit, ok í því rak þá til hafs undan. Ásmundr komst

undir Hrísey ok beið til þess, er honum byrjaði inn á Eyjafjörð. Honum gaf Helgi enn magri Kræklingahlíð alla. Hann bjó at Glerá enni syðri. Ásgrímr bróðir hans kom út nökkurum vetrum síðar. Hann bjó at Glerá enni nyrðri. Hann var faðir Elliða-Gríms, föður Ásgríms.

9. Nú er at segja frá Önundi tréfót, at þá rak undan nökkur dœgr. Síðan gekk veðrit á haf. Sigldu þeir þá at landinu. Kendust þá við þeir, er áðr höfðu farit, at þeir váru komnir vestr um Skaga. Sigldu þeir inn á Strandaflóa ok nær Suðrströndunum. Þá reru at þeim sex menn á teinæringi ok kölluðu upp á hafskipit, hverr fyrir réði. Önundr nefndi sik ok spurði, hvaðan þeir væri. Þeir kváðust vera húskarlar Þorvalds frá Dröngum. Önundr spurði, hvárt numin væri öll lönd um Strandirnar. Þeir kváðu lítit ónumit á Inn-Ströndum, en ekki norðr þangat. Önundr spurði skipverja sína, hvárt þeir vildu leita fyrir vestan landit, eða hafa slíkt, er þeim var til vísat. Þeir köru at kanna landit fyrst. Sigldu síðan inn eftir flóanum ok lögðu fyrst á víkina fyrir Árnesi; skutu þar báti ok reru til lands. Þá bjó þar ríkr maðr, Eiríkr snara, er land hafði numit milli Ingólfsfjarðar ok Ófœru í Veiðileysu. En er Eiríkr vissi, at Önundr var þar kominn, bauð hann honum af sér at þiggja slíka hluti, sem hann vildi; en kvað lítit

þat, er eigi væri numit áðr. Önundr kveðst sjá vilja fyrst, hvat þat væri. Fóru þeir þá inn yfir fjörðu, ok er þeir kómu inn til Ófœru, mælti Eiríkr: „Hér er á at líta; heðan frá er ónumit ok inn til landnáms Bjarnar.“ Þar gekk fjall mikit fram þeim megin fjarðanna, ok var fallinn á snær. Önundr leit á fjallit ok kvað vísu þessa:

(5) Réttum gengr, en ranga
rennir sæfarinn, ævi,
fákr, um fold ok ríki
fleinhvessanda þessum.
Hefk lönd ok fjöld frænda
flýit, en hitt es nýjast:
kröpp eru kaup, ef hreppik
Kaldbak, en létk akra.

Eiríkr svarar: „Margr hefir svá mikils mist í Noregi, at menn fá þess ekki bœtr. Hygg ek ok, at numin sé flestöll lönd í meginheruðum; kann ek því eigi at fýsa þik heðan í brott. Mun ek þat halda, at þú hafir af mínum jörðum þat er þér hentar.“ Önundr kveðst þat þiggja mundu, ok nam síðan land frá Ófœru ok þær þrjár víkr, Byrgisvík ok Kolbeinsvík ok Kaldbaksvík til Kaldbakskleifar. Síðan gaf Eiríkr honum Veiðileysu alla ok Reykjarfjörð ok Reykjanes alt út þeim megin; en um rekann var ekki skilit, því at þeir váru svá nógir þá, at hverr hafði þat, er vildi. Önundr gerði bú í Kaldbak ok hafði mannmart; en er fé hans tók

at vaxa, átti hann annat bú í Reykjarfirði. Kolbeinn bjó í Kolbeinsvík, ok sat Önundr um kyrt nökkura vetr.

10. Önundr var svá frœkinn maðr, at fáir stóðust honum, þótt heilir væri; hann var ok nafnkunnigr um alt land af forellrum sínum. Þessu næst hófust deilur þeira Ófeigs grettis ok Þorbjarnar jarlakappa, ok lauk svá, at Ófeigr fell fyrir Þorbirni í Grettisgeil hjá Hæli. Þar varð mikill liðsdráttr at eftirmáli með sonum Ófeigs. Var sent eftir Önundi tréfót, ok reið hann suðr um várit ok gisti í Hvammi at Auðar ennar djúpúðgu. Hon tók allvel við honum, því at hann hafði verit með henni fyrir vestan haf. Þá var Óláfr feilan, sonarsonr hennar, fullroskinn. Mjök var Auðr þá ellimóð. Hon veik á við Önund, at hon vildi kvæna Óláf frænda sinn, ok vildi, at hann bæði Álfdísar ennar barreysku. Hon var brœðrunga Æsu, er Önundr átti. Önundi þótti þat vænlegt, ok reið Óláfr suðr með honum; ok er Önundr hitti vini sína ok mága, þá buðu þeir honum til sín. Var þá talat um málin, ok váru lögð til Kjalarnessþings, því at þá var enn eigi sett alþingi. Síðan váru málin lögð í gerð ok kómu miklar bœtr fyrir vígin; en Þorbjörn jarlakappi var sekr gerr. Hans sonr var Sölmundr, faðir Sviðu-Kára. Váru þeir frændr lengi utanlands síðan. Þrándr bauð heim Önundi ok þeim Óláfi, ok svá

at koma af aftrgöngum ok reimleikum en aðrir menn; sú en þriðja, at hans var hefnt út í Miklagarði, sem enskis annars íslenzks manns]; [ok þat með, hverr giftumaðr Þorsteinn drómundr varð á sínum efstum dögum]. Lýkr hér sögu Grettis Ásmundarsonar.

## Vísnaskýringar.

---

1. **Önundr tréfótr:** Mér es-at[1] glatt síz[2] mœttum eldþrimu[3]; oss stóð geigr[4] af skjaldar galdrs gýgi[5], mart hremmir til snemma. Hykk[6], at flestum þegnum þykki lítit til mín koma; þat's oss mest einhlítt til yndismissu[7].

1. es-at = er eigi. — 2. síz = síðan (vér). — 3. eldþrima = orrusta. — 4. háski, tjón. — 5. Skjaldar galdrs gýgr = öx. — Réttara væri e. t. v. að lesa: *élþrimu* fyrir eldþrimu og taka saman: „skjaldar galdrs élþrimu (= orrustu); oss stóð geigr af gýgi.“ — Gýgr er að vísu tröllkonuheiti, en kemr einnig fyrir sem öxarheiti ókent og má því vel merkja öx. *Skjaldar galdrs élþrima* er viðkunnanlegri orrustukenning en *eldþrima*. — 6. hygg ek. — 7. yndismissa = gleðitjón, harmr.

2. **Víkingar:** Kviðlingr þessi er auðskilinn.

3. **Önundr tréfótr:** Seðu[1], hvárt sár þín blœða; sáttu mik nökkut hrökkva[2]? Einfœttr auðslöngvir[3] fekk enga skeinu af þér. Mörgum snerru Gjalpar brjót[4] er meirr lagit málskálp[5] en hyggjandi[6]; þegn es-at[7] þrekvandr í þrautir[8].

1. Seðu = sé þú, sjá þú. — 2. hrökkva undan, hopa. — 3. mannkenning, hér: *eg* (ɔ: Önundr). — 4. snerra = orrusta, bardagi; snerru gjálp = öx; öxar-brjótr: mannkenning. — 5. orðagjálfr. — 6. hyggindi, djúphyggja, vit. — 7. er eigi. — 8. þrekvandr í þrautir = vanr að drýgja dáð er á reynir.

4. **Önundr tréfótr:** Seggjum þóttak[1] fyrr hœfr at hrotta hreggvindi[2] — ok Súgandi[3], þá er hvast geirhríðar grand[4] gnúði. Nú verðr at stíga með einum fœti út á vit[5] Íslands; þvísa[6] skaldi sígr[7].

1. Mönnum þótti eg. — 2. hrotti = sverð; hrottahreggvindr = orrusta. — 3. Hallvarðr súgandi, félagi Önundar. — 4. geirhríðar grand = skæð orrusta. — 5. á vit = á fund, til þess að vitja. — 6. þessu. — 7. förlast.

5. **Önundr tréfótr:** Ævi gengr réttum[1] þessum fleinhvessanda[2] um fold ok ríki[3], en sæfarinn ranga fákr[4] rennr. Hefk[5] flýit lönd ok fjöld frænda, en hitt er nýjast: kaup[6] eru kröpp[7], ef hreppik Kaldbak, en létk[8] akra.

1. Ævin gengr skrykkjótt; *réttr*, það að vera á reki (fyrir straumi og stormi); að leggja skip í rétt = láta skipið reka („leggjast til drifs"). — 2. mk. — 3. um fold og ríki = að því er kemr til landeigna og ríkis. — 4. röng = boginn innviðr skips, „band" í skipi, (sbr. rengla, mjó, bogin stöng eða rá; „rengi" á reyðarhvölum mun hafa nafn sitt af því, að það er með bognum gárum, og líkist ytra borð þess röngum í skipi, þótt rengrnar sé að innanverðu í skipum, en rengis-gárarnir viti út á hvalfiskunum; þessa er því getið hér, að „rengi" er venjulega rangþýtt í íslenzkum orðabókum). Ranga-fákr = skip. — 5 Hefi ek. — 6. skifti. — 7. óhagkvæm, þung. — 8. ek lét, misti.

6. Fyrr lauguðu frægir rausnarmenn rítar frán-hvítinga[1] í ræfrhvössu ranni bensævar[2]. Nú rauð vómr[3] sá's vas víða tekinn frá sóma, bæði hlýr[4] benja-skóðs[5] í sýru af bleyði.

1. rít = skjöldr; skjaldar *frán-hvítingr*, ljómandi, blikandi bjart sverð. — 2. bensær = blóð; rann =

hús, heimkynni; rann blóðs — líkami; ræfrhvass = með hvössu ræfri, uppmjór; höfðinu líkt við ræfr (dr. F. J.). Dr. J. Þ. skýrir: *ræfrhvast rann bensævar* = *sár*. — 3. vómr, eldra vámr = vomr, lydda, bleyða. — 4. hlýr = kinnar. — 5. benjaskóð = vopn, öx. (*Ben* skylt: bani: *skóð* skylt: skaði).

7. Frák[1], at heldr yrði hörð[2] hervápn at Rifskerjum, þvít margir menn slyppir[3] lustu mest hvalklyppum[4] en malmgautar[5] hafa kastat mjök fast þveststyttum[6] móti. Oss lízt ímun[7] þessi óknyttin[8].

1. Frá ek, eg frétti. — 2. Þetta orð er hér haft í háði. — 3. vopnlausir. — 4. hvalklyppa (eða: hvalklyppi hvk.) — skorin stykki af hval. Páll Vídalín segir í Fornyrðum lögbókar, bls. 377: „hvalklippi eru kölluð enn á Vestfjörðum, það sama, sem aðrir kalla litlar þjósir.“ — 5. malmgautar = menn. — 6. þvest, eldra: þverst, nú framborið: þvest eða þvesti, = magra kjötið á hval, gagnstætt „spiki“ og „rengi.“ Þvest-slytti = kjötþjótta af hval. — Orð þetta (þve(r)st) er mjög rangþýtt í flestum orðabókum, nema „Gamalnorsk ordbok“ þeirra Hægstads og Torps: „det magre indre kjøtet paa kval,“ sem er hárrétt og hefir orðið einatt lifað í þeirri merking hér á landi. Í Hrímgerðarmálum 27. bregðr Atli Hrímgerði um það, að hún hafi legið fyrir skipum konungs í fjarðarmynni (í hvalslíki) og viljað bana mönnum hans: „*ef kœmit* (= kœmi eigi) *þér í þverst þvari.*“ Hér er *þverst* í venjulegri merking = þvest eða þvesti. Þvari er oddhvast vopn eða spjót, sem einhver skipverja hefir kastað svo fast að hvalnum, að gekk inn úr spikinu í þvestið og særði óvættina svo, að hún kom ekki fram vélræðum sínum. — Sigmund Feist telr þvest skylt gotnesku orðunum: *ga-þwastjan* = að festa, og *þwastiþa* = festa, öryggi; telr hann frummerking þess: hið fasta kjöt. (Etymolo-

gisches Wörterbuch der Gotischen Sprache. Halle 1909). Samkvæmt gotnesku orðmyndinni ætti *þvest* **að vera réttara** en *þverst*. — 7. orrusta, bardagi. — 8. óhnyttin, illa til fallin, ófimleg, óhœfileg.

8. **Grettir:** Kviðlingr þessi virðist eigi þurfa skýringa.

9. **Grettir:** Hodda Grund[1]! Menja slöngvir[2] vill brenna mik á báðum höndum; kennik þess mjök; þat es höfugt[3] ráð. Hör-Gerðr![4] Létk görr[5] tekit verða óskornum nöglum á hringa hreyti.[6] Sér gögul[7] gildra sára.

1. Hodd (hvk. flt.) = fémunir, gull; hodda-Grund = kona. — 2. Menja *stökkvir* er líklega réttara; þá helzt skothending í vísuorðinu: *mik stökkv*. Hvorttveggja (menja slöngir eða menja stökkvir) er mannkenning, hér: Ásmundr hærulangr. — 3. þungt, hart. — 4. kvenkenning. — 5. *görr*, hér miðstig af atviksorði: görva = fastlega; 'görr = gerr, „heldr betr." — 6. hreyta = láta hrjóta; hringa hreytir = slöngan-baugi, örr eða örlátr maðr; mk. — 7. *Gögull* segir dr. Finnr Jónsson að þýði vökvi; hér þá: dreyri, blóð, sem vætlað hefir úr rispunum eftir kambinn.

10. **Ásmundr hærulangr:** Grettir hefir flegna fast trausta Kengálu; flest en prúðu fljóð eru full-málug. Víst mun vitr drengr lengi venja af sér flestar kvaðningar[1] mínar. En fríða hrings Hlín[2] nemi hróðr.[*])

1. Kvaðning = boð, skipun. — 2. Hlín, ein af Ásynjum; hrings Hlín = kona. 3. Hróðr = kveðskapr.

11. **Grettir:** Ek hygg, at hamartröll[1] hljóp áðan fyr stundu til Skeggja með ramri för; blóðs gráðr[2] var á grön[3] Gríði.[4] Sú gein harðmynd of haus hánum ok sparði lítt vígtenn, er[5] klauf enni. Ek var hjá viðreign þeira.

1. *„hamartröll* **er tvírætt; það getr bæði merkt** *tröll,*

*er í hömrum býr* og *öx*, því að öxarskallinn heitir *öxarhamarr*; *tröll hamars* er því öx.“ (Dr. J. Þ.) — 2. gráðr (karlk.) = græðgi. — 3. *grön* (hér) = vör. — 4. *Gríðr*, tröllkona, hér: öx. — 5. þá er hún osfrv.

12. **Grettir:** Ek hygg, at auðigir beiðendr móins leiðar[1] bjuggu byrjar skikkju blakkþoll[2] heiman heldr snauðan.[3] Enn réð ern auðnorn[4] sanna við mik fornan orðskvið fyr gjöf benskóðs[5]: at móðir es barni bezt.

1. móinn = ormr; orms-leið = gull; gulls beiðendr = menn; hér er átt við Ásmund föður Grettis. — 2. *byrjar skikkja* = dúkr sá, er byrinn blæs í: segl; *Blakkr*, hestsheiti, *þollr* (furu)tré, viðr; segls blakkr = skip; *blakkþollr byrjar skikkju* = þollr byrjar skikkju blakks, mannkenning. — 3. heldr fátæklega úr garði. — 4. kona. — 5. *benskóð* = sverð, hér: Ættartangi; *fyr gjöf benskóðs* = með sverðsgjöfinni.

13. **Grettir:** Happ es, ef hér skal hverr fingr kroppna[1] á kyrpingum[2].

1. kreppast og stirðna (af vosi og kulda). — 2. *kyrpingr*, kurfslegr maðr, hengilmœna, kengilóra, lydda, bjálfamenni. (Orðið er víst skylt *kypringr* herpingr, þegar t. d. jaðar á klæði eða fati *kyprast* eða herpist saman; menn fá kypring í varirnar o.s. frv.).

14. **Grettir:** Annat var þá, er Hafliði át hvellr[1] drafla inni at Reyðarfelli; hann þóttist þá heima[2] ok Tveggi nesja tak-hreins, skreytandi darra dóm[4], neytti tysvar[5] dagverðar einum degi[6].

1 rómhvellr, hvellróma, gjallr, hávær. — 2. var hróðugr heima. — 3. *Tveggi* = Óðinn; *nesja tak*, það, er nes taka milli sín: fjörðr, sjór; *sævar hreinn* (hreindýr) = skip; Tveggi skips, skipsformaðr, „stýrimaðr,“ (mannkenning), hér Hafliði. — 4. *darr* = spjót; *darra-*

*dómr* = bardagi; bardaga skreytandi = glæsimenni í orrustum (Hafliði). — 5. tysvar — tvisvar; y og vi skiftist oft á í fornmálinu, sbr.: kyrr, kvirr, kykvendi, kvikendi; Sygnaskarð, Svignaskarð (kent við Sygni, menn úr Sogni) o. s. frv. — 6. Forfeðr vorir neyttu venjulega matar tvisvar á dag, dögurðar (dagverðar) og nátturðar. En hér er skopast að því, að Hafliði hafi gert sér svo títt um máltíðir, að hann neytti *dagverðar tvisvar* sama daginn.

15. **Hafliði at Reyðarfelli**: Statt upp ór gröf[1], Grettir! knörr grefr hola vörru[2], minstu á meginkát mál[3] við enn glaðláta svanna.[4] Hörnauma[5] hefir saumat þér fast at höndum[6]; hrings skorð[7] vill, at verðir vel viðr, meðan lönd eru niðri[8].

1. *gröf* eða gróf, bœli það, er Grettir hafði gert sér undir skipsbátinum. — 2. *vörr* (hneigist sem knörr) er hér far það, er kjölr skipsins gerir í sjóinn (varr-sími = straumfarið eftir skipið); annars staðar merkir *vörr: árartog*, t. d.: „ok er þeir höfðu fá vörru róit, þá reru þeir aftr ákafliga.“ Flateyjarbók II. 612 (dr. J. Þ.). Skipið heggr djúpt holskeflurnar. — 3. *meginkát mál* = gleðimál; réttara kynni að vera: meginkátr, sem sum handrit hafa og taka saman: minstu meginkátr á mál o. s. frv. — 4 „Sprund ok svanni heita þær konur, er mjök fara með dramb ok skart.“ (Snorri). — 5. kvenkenning. — 6. *at sauma fast at höndum e-m* virðist vera: að sauma ermarnar fast að úlfliðunum. „Stýrimannskonan hefir saumað að höndum Gretti, til þess að eigi skyldi blása upp undir kyrtilsermarnar, því að stormr var og illviðri.“ (dr. J. Þ.) — 7. *hrings skorð*, kvenkenning. — *Hrings* er tilgáta dr. F. J. fyrir *hrund* í vísuorðinu: „Fast hefr hrund at höndum.“ Missir þá skothendingar, en vinst rétt kvenkenning í stað tveggja hálfkenninga, er verða í vísuhelmingnum annars kostar

(hrund og skorð) og er annarri þeirra ofaukið. — 8. meðan lönd eru í sjó, meðan eigi sér til landa (Gæti mint á orð Stephans G. Stephanssonar í landsýn: „Upp úr hafi, yfir sollin djúpin, öldugrafin, týnd og druknuð lönd“ osfrv).

16. **Grettir:** Stöndum upp, þót alltíðum ríði[1] undir skip; ek veit, at víf man láta verr[2] ef ek ligg á knerri. Aldygg, hvít[3] kona mun hyggja[4] því öllungis illa ef skal hér láta vinna fyr oss hvert sinn.

1. *ríði*, hér ópersónuleg sögn; *ríðr undir skip* öldurnar ganga undir skipið; sbr.: „reið at bátinum svá öflugt, at honum hvelfir,“ *Maríu saga*. (dr. J. Þ.) — 2. *láta verr* = kunna því verr. — 3. hörund-björt. — 4. *hyggja* = una; *hyggja illa*: una illa.

17. **Grettir:** Báru blikrýrandi[1] hefir brugðizt mér at skýra bauga ván í haugi[2]; bragnar[3] spyri þetta brátt. Þó sék hitt, at fár Hrotta hríð-Ullr[4] muni síðan leita þinig[5] fullteitr[6] at Fáfnis mýri[7].

1. *blik* = ljómi, skin, birti; *báru blik* = birti Ægis eða sævar, gull; gull-*rýrandi*, eyðir gulls, maðr. — 2. að segja mér févon þá, sem í hauginum var. — 3. menn. — 4. *Hrotta hríð*, bardagi; *Ullr*, einn af Ásum; hrotta hríð ullr, maðr. — 5. hingað. — 6. fullglaðr, þannig, að hann hafi fulla gleði af leit sinni (dr. J. Þ.). — 7. *Fáfnis* mýrr = Fáfnis ból, gull.

18. **Grettir:** Ek fekk tekit í firna dökkum haugi sax[1] þat, er vexir[2] sár seggja[3]; draugr fell; báru hyrlestir[4]! Ok hjalma angrs jalms dýrlogi[5], hættr ýtum[6], skyldi mér aldri[7] ór hendi ganga, ef ættak[8].

1. *sax*, stutt sverð, eineggjað (með bakka); þyngra í höggi en annað sverð jafnlangt (sbr. dr. J. Þ.). — 2. *vexa* = láta vaxa, auka. — 3. manna. — 4. *hyrr* = eldr; báru

hyr-lestir = lestir báru hyrs, eyðir gulls, maðr. — 5. *hjalma angr* = tjón hjálma, vopn, vopna-jalm = vopnabrak, bardagi; bardaga *dýrlogi*, hið dýrmæta leiftrandi vopn, „Saxið góða.“ — 6. hættlegr mönnum. — 7. aldrigi, aldrei. — 8. ef eg ætta.

19. **Grettir:** Höfum búit tolf gunnelds runnum[1] gjöf hjá gjalfri[2]; ek nam einn vinna öllum ótrauðr beran dauða. Ítr[3], vel horin gulls selja. Hver verk munu of görvask[5] gild, þau's einn fær orkat, ef slík 'ro[6] lítil.

1. Gunnr = orrusta; *gunneldr*, sverð; gunnelds-runnr, mannkenning. — 2. *gjalfr*, ókyrr sjór, sjór; *hjá gjalfri*, við sjó. — 3. *ítr*, ágætr, frábær; þar af er myndað *ítarligr* og *ítarliga*, með innskotnu *a*-i til hljóðfegrðar; þau orð eru mynduð á sama hátt sem *undarligr* og *undarliga*, af undr (dr. J. Þ.). — 4. kvenkenning. — 5. gerast — 6. eru.

20. **Grettir:** Oft kom sá víg-Njörðr[1], er gjörði vitja vetrliða[2] í haust, hræddr heim í húmi, þá's engum blœddi[3]. Engi sá mik sitja síð hjá bjarnarhíði; þó kom ek urðar otri[4] út ór hellisskúta.

1. maðr. — 2. *vetrliði*, björn. — 3. Hræddr, blœddi; hér er æ og œ haft í aðalhendingum, sem sami hljóðstafr væri, en þessir stafir vóru eigi bornir eins fram, fyrr en á 13. öld. Er hér sönnun þess, að vísan er eigi frá eldri tíma. — 4. urðar otr = björn.

21. **Grettir:** Ek gat forðum unnit íug-tanna[1] — orð lék á því. Hann reif hugstríðr meginsíðan feld af höldi[2]. Bellinn[3] baugs Baldr[4] olli því, en skal nú gjalda. Ek þykkjumk ekki oft allhœlinn[5] í kappmælum.

1. *íugtanni* = björn. Dr. F. J. hyggr, að þetta bjarnarheiti sé dregið af lýsingarorði: *í-ugr*, gráðugr, frekr. *Ígul-tanni* stendr oft í handritum fyrir íugtanni; má

og vera rétt bjarnarheiti, dregið af enum miklu vígtönnum (þreftönnum), — sbr. í sænsku alþýðumáli lýsingarorðið *igeltänd* (som har tänderna sittande i oordning), er dr. J. Þ. færir til eftir orðabók *Rietz*. — 2. manni, mér (o: Gretti).—3. *bellinn* = brellinn (innskots-r kemr oft fyrir, svo sem; *bræla* f. bæla (af: bál), *skrolla* f. skolla). — 4. Mannkenning. — 5. mjög sjálfhælinn. — Hér eru stafirnir æ og œ í aðalhendingum: (hœl, mæl) og bendir til þess, að vísan muni eigi orkt fyrr en á 13. öld (sbr 20. vísu).

22. **Grettir:** Þorfinnr, þjóðar sessi[1], var alinn[2] oss til aldrs hjalpar, þá er víf, lukt ok læst í valskorum[3], of kvaddi mik lífs[4].

1. sessi = sessunautr, félagi, vinr; *þjóðarsessi* vinsæll maðr. — 2. borinn, skaptr. — 3. „víf, lukt ok læst í valskorum" er Hel. — Óvíst er, hversu skilja skal „valskorum". Dr. J. Þ. segir: „Valskorar, bústaðr dauðra manna, bústaðr Heljar" Valskorar er þá flt. af kvenkynsorðinu: valskor. — Sveinbjörn Egilsson les: *vallskor* og telr þar í fólgið nafnið *Túnsberg* (völlr = tún; skor = berg), og lúti að því, að Þorfinnr forðaði fjörvi Grettis í Túnsbergi. „Víf, lukt ok læst" yrði þá að merkja Hel. Dr. F. J. segir, að *vallskor* kynni að geta þýtt gröf, en vísar jafnframt til *valskor*, en það orð finn eg eigi í útgáfu hans af *Lex. poeticum*. — 4. heimti að mér líf mitt.

23. **Grettir:** Ok stálgoðs bana Regins skáli[1] Rauðahafs stórskip[2] vas, es manna mest varnaði mér Býleists bróðurdóttur[3].

1. *Stálgoð*, jötunn (líklega er hér átt við Hrungni; hjarta hans og haus var úr steini; kynni því að vera réttara: steingoð, sbr. Boer.) jötuns bani: Þórr. — *Reginn*, dvergsheiti; Reginsskáli = steinn. — 2. *Rauða-*

*hafs stórskip* = drómundr (úr grísku: δρόμων). — 3. *Býleistr*, bróðir Loka; dóttir Loka *Hel* bróðurdóttir Býleists. — Efni vísunnar er þá: Og Þórsteinn drómundr var sá, er manna mest forðaði mér bana.

24. **Grettir:** Þengils[1] mönnum þótti þá eigi dælt[2] oss at stríða, es hlébarðr[3] vildi brenna bragða borg[4] hlífar eldi[5].

1. *Þengill* = konungr. — 2. hœgt, auðvelt, árennilegt. — 3. *hlébarðr*, á latnesku: *leopardus*; hér bjarnarheiti, bersi, ɔ: *Bersi* Skáld-Torfuson. — 4. *bragða borg*, bústaðr kœnlegra ráða, brjóst; — 5. *hlífar eldr* = sverð. Bersi vildi rjóða hjör í brjósti þeirra, er móti stóðu.

25. **Þormóðr Kolbrúnarskáld:** Höldr[1] lét Mákssyni goldit kapp; sverða hríð gerðisk þá með hepni; hrafn gat at slíta hrátt hold. Vágs vigg-ríðandi[2] vas enn síðan at vígi Skúfs ok Bjarna; kœnn bar gjarna greipr at gunni[3].

1. maðr, hér: Þorgeirr Hávarsson. — 2. *vigg* (hvk), hestr; vágs vigg = skip, vágs vigg—*ríðandi*, mannkenning; hér: Þorgeirr. — 3. *gunnr*, (valkyrja), orrusta.

26. **Grettir:** Eigi veit[1] nema jalfaðr[2] svelli[3] kverk[4] útan at þér sjalfum fyr kapp ok orku, þat es kvelling[5]. Svá bannaði sinni seim-gauts[6] ungum þinul fjalla[7] ákall[8] endr fyr löngu, es vask heima.

1. eigi má vita. — 2. *Jalfaðr*, Óðinsheiti; merkir hér *Auðun*, sem er og heiti Óðins. — 3. svella (hér áhrifssögn, ek svelli, svelda, svelt), láta bólgna. — 4. réttara mundi að hafa hér fleirtölu: kverkr. — 5. hörmung. — 6. *sinni*, félagi, fylgjandi; *seimr*, gull, fé; seim-Gautr, mannkenning; *sinni seim-Gauts* er þá félagi mannsins: Auðunn, vinr Barða. — 7 *þinull* = þinr, strengr (skylt sögninni: þenja); strengr fjalla = ormr = *Grettir*, sem

er ormsheiti. — 8. banna *e-m ákall* = taka fyrir kverkar e-m. — Sveinbjörn Egilsson vill lesa: Sinnir seims! Gautr. *Sinnir seims*, maðr, er þá ávarpsfall. (Grettir ávarpar Barða), en tekið saman: *Svá bannaði Gautr* (Óðinsheiti: hér Auðunn) *ungum þinul fjalla* o. s. frv. Efni vísunnar verðr þetta:

Eigi má vita, nema Auðunn taki svo fyrir kverkar þér sjálfum að þær þrútni, og komi þér svo hefnd fyrir ofrkapp þitt (að skilja okkr). Það væri hörmung. Svo tók hann fyrir kverkar mér fyrrum, er eg var ungr heima.

27. **Grettir:** Treystik mér við þrenna Mistar mótkennanda[1], hvar es vinna skal heiftminnigt[2] í Hildar veðri[3]. Víst skalat mœta fleiri[5] en fjórum farsætöndum[6] at gráðfengnum[7] Gungnis gný[8], ef ek skal ráða.

1. *Mist*, valkyrja; Mistar-mót, orrusta; Mistar-mótkennandi = bardagamaðr (mannkenning) — 2. heiftuðigt, fjandsamlegt. 3. *Hildar veðr*, = bardagi. — 4. skal eigi. — 5. *fleiri* í stað: fleirum, bendir á, að vísan sé ekki forn. — 5. *farsœtandi*, sá er veitir skipum fyrirsát, víkingr, *far*, skip; sæta e-m, veita e-m fyrirsát). Dr. F. J. les: *fársœtandi:* sá er sætir fœri að vinna öðrum geig eða fár. — 7. *gráðfenginn*, gráðugr, ólmr. 8. *Gungnir*, geir Óðins; *Gungnis gnýr*, bardagi. Aðalhendingarnar: *mœt-*, *sœt-*; sbr. 20. vísu.

28. **Grettir:** Tunga verðr boga slöngvi[1] jafnan[2] oflöng til orða[3], því kemr þar þung hefnd fyrir til sumra. Margr beiðir benlinns borgar[4] hefir görvar minni sakir en þú, Ferðalangr, þótt fengir fjörtjón.

1. *boga slöngvir*, mannkenning. — 2. oftlega. — 3. Menn tala stundum helzti margt og ógætilega. — 4. *ben-linnr*, sár-ormr, sverð; benlinns borg = sverðslíðrar; *beiðir bénlinns borgar*, mannkenning.

29. **Grettir:** Ímunbukl[1] þrimu rœkis[2], þats fekk áspyrnu ökla þyrnis[3], snart á snæðings porti[4] Snækolls; svá tvískifti enn járnvarði balkr broddagangs[5] tanngarðs toftum[6], at kjalkar rifnuðu á bringu.

1. *Imun*, orrusta; *ímunbukl*, skjöldr. — 2. *þrima*, orrusta; *þrimu rœkir*, bardagamaðr, Grettir. — 3. *ökla þyrnir*, fótr. — 4. *snæðingr*, matr; *snæðings port*, munnr. — 5. *broddr*, örvartegund; *broddagangr*, örvadrífa (sbr. éljagangr); *balkr*, girðing eða þili í húsi; *broddagangs balkr*, skjöldr. — 6. *tanngarðs toftir*, munnr.

30. **Grettir:** Alt kom senn at svinnum[1] bragar tíni: sekt mín; drengr skal drjúghljóðr[3] af dauða föður ok svá bróður. Þó skal margr Heðins snótar mótrunnr[4] verða í morgin[5] daprari of slíkar sútir, sverðs brjótr[6].

1. *svinnr*, vitr, hygginn. — 2. *bragar tínir*, skáld. — 3. mjög hljóðr. — 4. *snót*, ókent konuheiti; *Héðins snót*, Hildr; Hildar *mót*, orrusta; orrustu-*runnr*, mannkenning. — 5. á morgun, þegar frá líðr. — 6. mannkenning.

31. **Sveinn at Bakka:** Heðan reið barðviggs beiðir[1] á braut; hjalmþollr lét þjófs-hönd um hrífa Söðulkollu næri garði. Sá þundar skýs Freyr[3] mun fullsterkr at fleirum svaðilverkum en þessu; þat's heldr, at beldi mér[4].

1. *barðvigg*, skip, barðviggs *beiðir*, mannkenning. — 2. mannkenning. — 3. *Þundr*, Óðinn; *Þundar-ský*, skjöldr; skjaldar-*Freyr*, mannkenning. — 4. hann hefir heldr en eigi unnið mér ótila (ógreiða).

32. **Grettir:** Alm-þollr[1]! Segðu bráðlyndr[2], í breiðar bygðir, at þú fyndir Söðulkollu alt uppi hjá Kroppi[3]. Þar vas staddr á steddu[4] drengr í svörtum kufli, sás drýgir löngum dufl[5]. Strjúk allmikinn[6], Halli!

1. mannkenning. — 2. bráðgeðr, lundbráðr; hér: (segðu) ólmr (eins og þér sé mikið niðri fyrir). — 3.

*Kroppr* = Stóri-Kroppr, bœr í Borgarfirði. — 4. *stedda*, hryssa (á þýzku: *stute*). — 5. *drýgir dufl* = fremr tenningakast (til fjár). Dr. J. Þ. sýnir fram á. að orðið *dufl* komi fyrst fyrir í lögum seint á 13. öld (í Jónsbók) og bendi það á ungan aldr vísunnar. — 6. Flýttu þér sem mest.

33. **Sveinn at Bakka:** Sátt[1], hvar enn reitni[2] slœgr slyttimákr[3] reið hrossi frá næstum bœjum? Oss es mikil raun at slíku. Heraðsmenn skulu nefna hvinni[4] hefning[5] fyr þat. At hváru[6] man (hann) bera blán búk, ef ek næða hánum.

1. sástu. — 2. áreitinn, ódæll, áleitinn. — 3 *slyttimákr*; *slytti*, lint kjötstykki, eða því um líkt; *slyttinn*, latr; *slytti-mákr*, letingi, slæpingr. Réttara kynni vera að lesa — *makr*, makráðr, makindalegr; væri þá nær sama merking tvítekin í orðinu. — 4. *hvinn*, smáþjófr hnuplari. 5. refsing. — 6. *At hváru*, hvort sem er; að minsta kosti.

34. **Grettir:** Fœrðu, vel borin vella dís[1], hafloga hirði[2] gamanvísu; áll lautar[3] hefir gripið vigg[4] braut. Ok orðrakkr[5] Yggs líð-gjafi[6] vildi ríða jöldu[7] svá œst[8], at ek man gista at Gilsbakka.

1. *vell*, auðæfi, gull (á ensku wealth), sbr. vell-auðugr; *vella dís* kona. — 2 *haflogi*, gull; gulls *hirðir*, mannkenning. — 3. *áll lautar*, fiskr lautar, ormr, Grettir. — 4. *vigg* (hvk ), hestr. — 5 máldjarfr, orðhvatr, málhvatr, orðdjarfr, djarforðr o s. frv. — 6 *Yggr*, Óðinn; *líð*, öl. sem framreitt er til drykkjar (sbr. Hávamál: „Mikilsti snemma kom ek í marga staði, en til síð í suma: öl vas drukkit, sumt vas ólagat:—Sjaldan hittir leiðr í lið.") *Yggs líð* (öl Óðins), skáldskapr; *Yggs-líð-gjafi*, skáld, (hér: Grettir). — 7. *jalda*, hryssa, merr. — 8. geyst, ákaft.

35. **Sveinn at Bakka**: Hverr hjörgráðs boði[1] reið heðan áðan hóti fyrri hart á svörtu hrossi í róstuveðri? Hann man heldr hundeygr rekask at sönnu lengi undan í dag; drengr sá es djarfr, dáðum horfinn.

1. *hjörr*, sverð; hjörgráðr, sverða-gustr, geir-þeyr, orrusta; *boði*, sá er býðr (eða boðar); *hjörgráðs boði*, mannkenning.

36. og 37. þurfu ekki skýringa við.

38. **Grettir**: Fangvinar Hafla fress[1] afl arfs ok gneista[2] varð œst vápnsóttr[3] í Þróttar byr[4] í Veðrafirði[5]. Nú's hánum maklega goldit andrán[6] Atla, þat's vas fyrr ósjötlat[7]. — Hann[8] hné dauðr at fríðri fold.

1 *Hafli*, jötunn; *fang*, fangbrögð, glíma; *fangvinr Hafla*, Þórr; *fress*, bjarnar-heiti; Þórs björn = Þórbjörn. — 2. *Arfr og gneisti* eru öxnaheiti; *afl*, þróttr, megin; — þessar kenningar merkja þá: Þorbjörn öxnamegin. — 3. sóttr vopnum, vopnbitinn. — 4. *Þróttr*, Óðinn; *Óðins byrr*, bardagi. — 5. *veðr*, hrútr; *Veðrafjörðr*, Hrútafjörðr. — 6. víg, dráp. — 7. *ósjötlað*, óbœtt, óútkljáð sbr. í 49. kap.: „hafst við í Vestfjörðum, þar til sem sjötlast þessi málaferli; *sjötull*, hemill, stillir, sá er lætr e-ð sjatna, sbr. í Gróttasöng: „*drögum dolgs sjötul*"; dolg = ófriðr; dolgs sjötull, ófriðar stillir (kvern Fróða; að *sjötla* er skylt sagnorðinu: setna, sjatna; að „setla" (í Reykjavíkrmáli) mun vera ensku-sletta: *To settle*, en mætti vel vera rétt íslenzk orðmynd, enda er orðið eð sama að uppruna. — 8. ɔ: Þorbjörn.

39. **Grettir**: Gæfuleysi mitt vas gilt í miðjum marþaks firði[1], osfrv.

1. *marr*, sjór; *marþak* — ís; *marþaksfjörðr* = Ísafjörðr. — Að öðru þarf vísan eigi skýringa.

40. **Grettir:** Margir sögðu mér hœfa þau mægðalaun, es Sigarr veitti[1], unz rekkar fundu reynirunn[2], laufgan laufi sœmdar.

1. Sigarr fornkonungr hengdi Hagbarð fyrir þá sök, að hann nam dóttur hans; mægðalaun Sigars er því: *henging*. — 2. Þá er Þórr óð ána Vimur, þá óx hún svo mjög, „at uppi braut á öxl honum. — Ok í því bili bar hann at landi ok fekk tekit reynirunn nökkurn ok steig svá ór ánni; því er þat orðtak haft, at reynir er *björg Þórs.*" (Snorra Edda). *Reynirunnr* = Þórbjörg.

41. Þarf eigi skýringa.

42. **Grettir:** Hjalp tveggja handa Sifjar vers[1] bað mik með sér fara. Sú es mik gœddi frið, gaf þveng Þundar beðju[2] góðan hest.

1. *Sif,* kona Þórs; *Sifjar verr,* Þórr Hjálp tveggja handa Þórs = reynirunnr, Þórbjörg. — 2. *beðja* (af beðr, dýna, sæing), lags-kona; Þundr, Óðinn; *beðja* Óðins: Jörð; jarðar *þvengr,* ormr, Grettir.

43. **Hallmundr:** Ætla ek hregg[1] steypist í hraunketil niðr frá stórfrerum[2]; þar má grundar hængr[3] hitta lítinn stein ok land hnefa[4].

1. Stormvindr, hryðja. — 2. *stórfrerar,* stórjöklar. — 3. *hœngr.* fiskr; *grundar hœngr,* ormr, Grettir. — 4. *lítill steinn,* hallr; *land hnefa,* hönd, mund; *lítinn stein* ok *land hnefa* = Hall-mund.

Samkvæmara sögunni og nær handritum væri að lesa fyrra hlut vísunnar svo: Ek ætla í hreggs hrunketil[1], niðr af stór-steypi-frerum.[2]

1. hrun = hryn, hark, hávaði; ketill glymjandi af hreggi, hellir Hallmundar. — 2. *stór-steypifrerar,* miklir

falljöklar, einkar hnyttið nafn á hrap-jöklunum við Kaldadal (og Þórisdal).

44. Þarf eigi skýringa við.

45. **Grettir:** Snarr Illugi ok Atlí, hvatr malma skúrar,[1] stóð mér mundangs[2] fjarri, — vildak sjaldan svá staddr; — þá es enn armi Loftr dró mér endr[3] ófælinn[4] álar[5] ór hendi; horsk[6] brúðr strýkr hvarma, ef hræðumk.

1. *malma skúr*, bardagi; *hvatr malmaskúrar*, gunnhvatr, röskr í orrustu. — 2. *mundang* mun vera járnbroddrinn eða vísirinn á miðri vogarskálastöng, sá er upp veit; *mundangs hóf* er það, er jafn þungi er hvorum tveggja megin í skálunum, svo að mundangið stendr hnigrétt, ber við járngreip þá, er heldr stönginni. — Í vísu ens vestrœna skálds „Þorskabíts“: „*Hennar vilja hallröng met hnitmiðunum* týna,“ merkir *hnitmið* mjög ið sama sem mundangs hóf. — Páll Vídalín segir í Fornyrðum lögbókar, að hann hafi heyrt, að mundang heiti tungan í voginni og svo skrifi Björn á Skarðsá. „Hefi eg það fyrir satt,“ segir hann, „að mundang heiti tungan í pundaranum. — — „mjótt er mundangs hófið,“ ɔ: vanskilt er vogin, svo tungan hallist hvorki fram né aftr osfrv.“ — Víst hefir mundang þýtt annað að upphafi en *hóf*, ella væri *mundangs hóf* upptugga (tautologia): hófs-hóf. Í afleiddri merking getr mundang þýtt meðalhóf eða hóf, t. d. í vísu Óláfs hvítaskálds:

„Haukenjallr tók þá hersa stillir
hæra nafn, en mundang væri“.

*mundangs fjarri*, meðallagi fjarri, helzti fjarri. [Dr. F. J. tekr saman mundangs fjarri, en eigi mundangs hvatr. Virðist og ólíklegt, að Grettir sé látinn kalla bróður sinn dáinn „mundangs hvatan malma skúrar“, þar sem orðið mundi draga úr lofinu (hvatr malma skúrar), í

þessu sambandi]. — 3. fyrrum. — 4. hugaðr, alls óskelfdr. — 5. ólar, (hér): beizlis taumar. — 6. vitr. — 7. kona (hér líklega átt við Ásdísi móður Grettis. Þessa vísu er ein þeirra, sem lögð er Gretti í munn, en orkt löngu seinna, að líkindum aukið inn í afskrift sögunnar.

46. **Grettir:** Háttr stígr höllum fœti Hallmundr í sal fjalla!

1. *salr fjalla* virðist hér vera: fjall-lendi eða fjalldalir. Stundum merkir: *salr fjalla* sal þann, er fjöllin standa í, þ. e: himin; sbr. vísu Hallvarðs Háreks-blesa:

Knútr verr jörð sem ítran
alls dróttinn sal fjalla.

47. **Grettir:** Vígfúss[1] naðr vápnhríðar[2] varð skríða fram á benstíga[3] í Virfils veðri[4] í Viðrisfirði[5]. Traustum köppum mun kostr at erfa[6] Keldhverfinga[7]. *Hvatr* Hallmundr ór helli olli, es komk undan.

1. *Vigfúss*, fús til víga. Skáldið eignar vopninu hugarfar, af því að hann líkir því sjálfu við kvika skepnu, orm. — 2. *naðr*, (sbr. lat: natrix, þýzka: natter), (högg-) ormr; ormr vápnhríðar, vopn (höggvopn eða lagvopn). — 3. *ben*, (banvænt) sár; *benstígar* sama sem benjar; orðið valið vegna líkingar þeirrar, sem höfð er í vísunni. — 4. *Virfill*, sækonungr; *Virfils veðr*, bardagi. — 5. *Viðrisfjörðr* mun eiga að merkja *Arnarvatn*. *Viðrir* er að vísu Óðins-heiti, en kynni hér með djarflegu *skáldaleyfi* að vera notað sem arnarheiti. Óðinn var í *arnarham*, þá er hann flutti mjöðinn dýra til Ásgarðs. — *Fjörðr* ætti þá að vera haft fyrir: *vatn*: *í Viðrisfirði* = við Arnarvatn (eða á Arnarvatnsheiði, sbr. t. d. í Eyjafirði = við Eyjafjörð, haft um staði, þótt langt sé frá sjó). — 6. *erfa*, gera erfi eftir. —

7. Hér og í vísu Hallmundar eru fylgismenn Þóris ór Garði kallaðir Keldhverfingar, og er það rétt, því að Þórir var úr Garði (Miklagarði) í Kelduhverfi, en ekki Garði í *Aðaldal*, sem í handritum sögunnar stendr. Ef höfundr sögunnar hefir talið Garð þann, er Þórir bygði, í Aðaldal, þá eru vísur þessar orktar af öðrum manni, er betr vissi. En sennilegra er, að orðunum *í Aðaldal* sé aukið inn í af ókunnugum afritara. Hitt hlaut hverjum góðum sagnamanni að vera kunnugt af Landnámabók, að Þórir farmaðr bjó í Garði í Kelduhverfi.

48. **Grettir:** Marr[1]), sá's mest rispar tönnum[2], es skal bítask, rinnr raunlítt fyr öðrum hesti né mœðisk fyrri, en Gísli rann físandi þenna dag fyr mér margnennum[3] um Mýrar; (hann) es firðr fremd ok sœmdum.

1. hestr. — 2. sem beztr er að bítast. — 3. *margnenninn*, sá er mörgu nennir, eljanarmaðr, atorkumaðr, verks ígjarn.

49. **Grettir:** Hornflœðar hirði Sága[1]! stór höfuðskeina Steinólfs mun-at[2] nú hœg (at) grœða þó at fleiri steyptusk. Því's þung ván of Þorgils ævi, at bein sprungu; lýðr segir þar átta aðra auðbrjóta[3] dauða.

1. *Hornflœðr* (kvk.), öl, (*flœðr* af flóð); *Sága*, ein af Ásynjum; *öls hirðisága*, kona. — 2. mun eigi. — 3. menn.

50.—56. Þessar vísur Hallmundar þurfu vart skýringa. Skulu þó greind nokkur orð. — 51.: *sýna stund*, nokkra stund, góða stund. — 53. *skýlihögg*, skáhögg, sniðhögg. — 55. *meinvætti marga* er þolfall eintölu (meinvættr, kvk.) — 56. *alfa kind*, álfa afkvæmi; (sbr. á þýzku; *kind*, barn).

57. **Grettir:** Ríðkat ek[1] á móti randar hóts rækimeiðum[2]; þraut es sköpuð þessum þegni; ferk einn á

brautu. Vilk-at ek finna snara vinnendr Viðris balkar[3]; leitak mér fœris[4]; þér mun eigi þykkja ek œrr[5].

1. *ríðkat ek* = ek ríð eigi (ríðkat = ríð ek at, *ek* er því tvítekið, og kemr það oft fyrir í fornu máli (sbr. vilk at ek, síðar í vísunni). — 2. *rönd*, skjöldr, *hót*, það er hótar (háska eða tjóni); *randar hót*, bardagi; *randarhóts rækimeiðr*, mannkenning. — 3. *Viðrir*, Óðinn; *balkr Óðins*, skjöldr; *vinnendr Viðris balkar* bardagamenn. — 4. eg sé mér farborða. — 5. viti firtr.

58. **Grettir:** Hnekkik frá[1], þar's mjök stórir flokkar Þóris fara; esa[2] mér þerfilegt[3] at hverfa í þys þeira[4]. Forðumk[5] fund frægra virða[6]; ák veg til lundar[7], verð'k hirða Heimdalar hjör[8]; björgum svá fjörvi.

1. eg vík frá. — 2. eigi er. — 3. þarflegt, gagnvænlegt. — 4. snúast í, verða fyrir flokki þeirra. — 5. eg forðast. — 6. *Virðar*, menn. — 7. Eg á leið til skógar. — 8. *Heimdalar hjörr* höfuð (svo nefnt af því, að Heimdalr var lagðr mannshöfði í gegnum). Eg verð að sjá höfði mínu borgið.

59. **Grettir:** Svinn[1] Sól gullbúa stóla[2] munt kunna segja föður þínum, þót orð mín skifti oft eigi, hvar ek ríð, of breiðan bœ ok nær garði með dreng enn þriðja; lið barðjós láð-skreytis[3] es lítit.

1. vitr. — 2. *gullbúi* (réttara væri gollbúi), ormr; orms *stólar* = orms ból, gull; gulls Sól kvenkenning; hér: dóttir Þóris ór Garði. — 3. Hér verðr að taka saman: *barð láð(s) — jó-skreytir; barð*, framstefni og kinnungar skips, hér haft í merkingunni skip (*pars pro toto*); skipaláð = sjór; sævar jór, sævar hestr, skip; *skipskreytir*, mannkenning, hér: Grettir.

60. **Grettir:** Ek gekk í gljúfrið dökkva; veltiflug steina gein úrsvölum munni við hjör-bríðar hlunns gœði[1]; flugstraumr lá fast framan á brjósti í Naumu-

sal[2]; heldr hörð fján Braga kvánar[3] kom á herðar skaldi.

1. *hjör hríð gæðir*, mannkenning; *hlunns* virðist vera of-aukið; verðr eigi fundinn staðr svo að vel fari. — 2 *Nauma*, tröllkona; salr tröllkonu, gljúfrið. — 3. *fján*, fjón, hatr (af sagnorðinu fjá = hata, sbr. fjá-andi, hat-andi, (fjandi). Braga kván = Iðunn; *hörð fján braga kvánar*, hörð heift iðunnar undir forsinum; strítt íðu-kast skall á herðum skáldi (mér, þ. e. Gretti).

61. **Grettir:** Ljótr mellu vinr[1] kom í móti mér ór helli; hann feksk heldr lengi við mik, at sönnu harð-fengr; ek lét höggvit harðeggjat[2] heftisax af skafti; bjartr Gunnlogi[3] klauf brjóst ok svarta bringu Gangs[4].

1. *mella*. tröllkona; *mellu vinr*, Jötunn. — 2. hvass-eggjað, hvast, beitt. — 3. sverð. — 4. *Gangr*, jötuns-heiti.

62. **Grettir:** Margr hefr dulizk í morgin við kunnan menja runn[1]; tvær grímur renna víst á ímu ranns runna[2]; heldr mun skotit leikborði fyr hvassorða hölda[3]; öld[4] bilar at halda orð; at slafr[5] dró af Hafri.

1. Margr hefir í morgun ekki borið kensl á mig, þótt eg sé þeim áðr kunnr. 2. *íma*, orrusta; *ímu rann*, skjöldr; *skjaldar-runnr*, mannkenning. — 3. *leikborð*, (líklega) taflborð; að *skjóta leikborði fyrir* e-n virðist merkja: að fá e-m vanda á hendr, gera e-m vandleikið. — 4. menn. — 5. málæði, mælgi, orðagjálfr.

63. **Grettir:** Hlakkar tjalda hefjendr[1] heldu saman nefjum ok Hildar veggs hregg-Nirðir[2] hjoggusk til skeggjum[3]; ok sviftendr Sváfnis látra[4] gengu geð-strangir[5] í sveitir[6], es mik kendu; (þeir) tóku at iðrask griða[7].

1. *Hlökk*, valkyrju-heiti; *Hlakkar-tjald*, skjöldr; *skjalda-hefjendr*, skjald-berendr, menn. — 2. *Hildar*

*veggr*, skjöldr; *skjalda hregg*, bardagi; *Hildarveggs-hregg.Nirðir*, menn. — 3. Grettir velr bœndum sem hermannlegastar kenningar, en lætr þá svo halda (eða stinga) saman *nefjum*, og höggvast með *skeggjum*, svo að vandræði þeirra komi sem skoplegast fyrir. — 4. *Sváfnir*, ormr; *látr*, leg, ból eða bœli; *ormsból*, gull: *gulls-sviftendr*, gjöfrífir, örlátir eða örvir menn, auðskatar. — 5. harðhugaðir, einbeittir; sagt í skopi, því að menninir vóru einmitt kvalráðir, tvíbendir, örþrifráða. — 6. flokka, hópa. — 7. þeir tóku að iðrast griða þeirra, er þeir höfðu sett.

64. **Grettir:** Váskeytt[1] es far[2] flásu[3]; fár œskiruðr örveðrs kann görva séa sverð í hári fyr öðrum. Veðjak hins, at þeir hafit meiri hreðjar an vér þótt atgeira él-draugar eigi meiri sin.

1. *váskeyttr*, óstöðugr, ótraustr, lausungar-legr. — 2. háttalag, framferði. — 3. *flása*, gáskafull stelpa.

65. **Grettir:** Sæta[1] kvað mik orðinn sverðlítinn; Hrist hreifa kvista[2] gerir satt at mæla; hœlik saumskorðu[3]. All-lengi má lágr faxi vaxa mér ungum í læra skógi; eyleggjar Freyja[4], bíð lotu.

1. kona. — 2. og 3. kvenkenning. — 4. *eyleggr*, steinn, *eyleggjar Freyja*, kvenkenning.

66. **Grettir:** Oft nam skjóma[1] egg skifta sköpum[2] í rómu[3], þás varðak böðharðum[4] berserkjum birkis sjöt[5]. En Hjarrandi, vörðr Hristar gims[6], misti handa; Björn lét brátt ok Gunnarr báðir líf ok náðir.

1 *skjómi*, sverð. — 2. *skifta sköpum*, ráða örlögum, ráða úrslitum. — 3. *róma*. orrusta. — 4. *böð*, orrusta; *böðharðr*, harðsnúinn í orrustu, böðfrœkn, sóknharðr, o. sfrv. — 5. *birkis sjöt*, bœr (Þorfinns í Háramarsey). — 6. *gim*, eldr; *Hrist*, valkyrja; *Hristar gim*, sverð; sverða *vörðr* mannkenning.

67. **Grettir:** Enn kom ek einu sinni út í Dyrhólmum á breiðri skútu, drengr háði lengi darra rym[1]. Torfi, þarflegr Vébrands arfi, bauð þá þýðum þegn þrautir þungra spjóta með stóru megni[2].

1. *darr*, spjót: *darra rymr*, bardagi. — 2. Torfi Vébrandsson bauð mér þá megnan ófrið með miklum liðsafla.

68. **Grettir:** Svá varð skeljeggr[1] meiðr brimis eggja[2] skildr frá skaldi[3], þót margir menn stœði at vápnasennu, — svá't benja ára hlynr[4] varð endr[5] ófœrr af Grettis hendi í hríðum[6].

1. skeleggr, snarpr, hvass, harðfengr. — 2. *brimir*, sverð; *brimis eggjar*, sverðseggjar; réttara mundi: *brimis veggjar*, skjaldar; *brimis (v(eggja(r)-meiðr*, mannkenning. — 3. ɔ: mér, Gretti, — 4. *benja ár* (kvk.) sverð; *sverða hlynr*, mannkenning. — (hér:) forðum. — 6. í róstunum.

69. **Grettir:** Frák, (at) Þorfinnr Arnórssonr[1] þœtti vítt[2] þegn sterkr svaðilverka; oddbörr[3] kvaðsk skyldu varna mér aldrs[4]. Eyði orma setra[5] brast áræði, þót fyndi mik einlyndr[6] einn[7] úti; vas'k eigi at beinni[8].

1. Þorfinnr Arnórsson í Reykjahlíð, kappi mikill., sbr. Ljósvetningasögu, fyrstu bls.: „Þat er sagt, at þeir Þorfinnr ok Grettir fundust, ok réð hvárrgi á annan, ok má á því marka, hvílíkr kappi Þorfinnr var.“ — Um þenna fund þeirra virðist þessi vísa vera kveðin. — 2. víða, víðs vegar. — 3. mannkenning. — 4. hann kvaðst skyldu marka mér aldr, lyfja mér elli, ráða mig af dögum. — 5. *Orma setr*, gull, *eyðir gulls*, maðr, — 6. *einlyndr*, einþykkr. — 7. einn (Þolf.) = einan. — 8. eg varð eigi „at beinni,“ greiðari, auðsveipari, (þótt eg væri einn míns liðs).

70. **Grettir:** Ek gat gætt aldrs[1] fyr geira njótum[2],

þvít[3] treystak mætti (mínum) viðr umsátum ýta[4]) þat vas-a[5] sjaldan. Nú hefir gild afgömul steina rein[6] unnit gunnelda bör[7] með göldrum, römm[8] eru ráðin grimmu.

1. gætt lífs míns. — 2 fyrir mönnum. — 3. því at. 4. manna. — 5. *vas-a*, var eigi. — 6. *steina rein*, kvenkenning. — 7 *gunneldr*, gunnlogi, sverð; *sverða börr*, maðr. — 8. *römm*, aukin töframagni. — Réttara mundi að rita: *ráð en*.

71.*) **Þorbjörn öngull:** Fluttak ómett[1] höfuð Grettis upp ór eyju; þann hárrauðan (mann) grætr nála-Nanna nauðuleg. Hér mátt líta á golfi höfuð griðbíts; þat mun alt fúna gjalfrs fagrlogs Fríði[2] nema saltit.

1. *ómettr*, (hér:) ómettandi, fíkinn, áfjáðr (höfuðið var áfjáð, ɔ: Grettir sjálfr, meðan hann lifði). — 2. *Gjalfr*, sjór; *gjalfrs fagrlog*, gull; *gulls Fríðr*, kvenkenning hér Ásdís á Bjargi.

72.**) **Ásdís á Bjargi:** Mundut[1] síðr en sauðir fyrir dýri[2] hlaupa á sjá — [komit es nýtt skaup[3] norðr at Sýrar gráts Njörðum[4] — ef styrviðir[5] stœði[6] Gretti ósjúkan stála Frey[7] í eyju; hefik verit létt lofs um lýði[8].

1. mundu eigi. — 2. dýr = refr, melrakki, (sbr. dýrbítr, refr, sem bítr fé; *dýrhundr*, hundr er eltir uppi refi). — 3. skop, háð. — 4. *Sýr* = Freyja; Freyju grátr = gull; *gull-Njörðr*, maðr. — 5. menn. — 6. *standa e-n*, koma að em, komast í fœri við e-n. — 7. mann. 8. eg hefi lokið léttvægu lofsorði á menn þessa.

Í vísunni á bls 249 stendr: *sýrgarpr fyrir dýri*, en réttara mun (samkv. leiðr. *dr. F. J.*): (*Sýrar gráts*) *fyrir dýri*, svo sem upp er tekið hér í skýringuna.

---

*) Ranglega talin 70. í sögunni, bls. 249. **) Ranglega talin 71. á bls. 249.

73*). **Þorsteinn drómundr:** Eigi máttu átta eggþings boðar[1] koma saxi ór hendi geðrakks[2] Grettis, hringa Grund[3], — áðr hvardyggir[4] herðendr fetils gerðar[5] hjoggu axlarfót[6] á hugarrakkum[7] unnblakks ýti[8].

1. mannkenning. — 2 *geðrakkr*, hugrakkr, hugfullr. 3. kona. — 4. full-traustir. — 5, *fetill*. band til þess að festa við sig skjöld eða sverð, skjaldarband eða sverðsfetill; *gerð* = gjörð; *herðendr fetils gerðar*, menn. — 6. *axlarfótr*, hönd. — 7. hugrökkum. — 8. *Unn*, alda, bára, bylgja; *blakkr*, hestr; *unnblakkr*, skip; *ýtir skips*, maðr (hér :) Grettir.

*) Ranglega talin 72 á bls. 258.

# Nafnaskrá.

(Tölurnar merkja kapítula).

# Íslendinga sögur

þessar eru komnar út
og fást hjá öllum bóksölum:

1.-2. **Íslendingabók og Landnámabók**
3. **Harðar saga ok Hólmverja** . :
4. **Egils saga Skallagrímssonar** :
5. **Hœnsa-Þóris saga** . . . . . :
6. **Kormáks saga** . . . . . . :
7. **Vatnsdœla saga** . . . . . :
8. **Hrafnkels saga freysgoða** . :
9. **Gunnlaugs saga ormstungu** . :
10. **Njáls saga** . . . . . . . . :
11. **Laxdœla saga** . . . . . . :
12. **Eyrbyggja saga** . . . . . :
13. **Fljótsdœla saga** . . . . . :
14. **Ljósvetninga saga** . . . . . :
15. **Hávarðar saga** . . . . . . :
16. **Reykdœla saga** . . . . . . :
17. **Þorskfirðinga saga** . . . . :
18. **Finnboga saga** . . . . . . :
19. **Víga-Glúms saga** . . . . . :
20. **Svarfdœla saga** . . . . . . :
21. **Valla-Ljóts saga** . . . . . :
22. **Vápnfirðinga saga** . . . . :
23. **Flóamanna saga** . . . . . :
24. **Bjarnar saga Hítdœlakappa** . :
25. **Gísla saga Súrssonar** . . . :
26. **Fóstbrœðra saga** . . . . . :
27. **Vígastyrs saga ok Heiðarvíga** :